# Skóla Hátíd

í minníngu

Fædíngar-dags

vors allra nádugasta Konúngs

# Kristjáns Attunda,

þann 18da September 1840,

er haldin verdur þann 1ta October 1840,

bodud af

Kénnurum Bessastada Skóla.

---

Tuttugasta og fyrsta, tuttugasta og önnur, tuttugasta og þridja, tuttugasta og fjórda bók, af

**Homeri Odyssea,**

á íslenzku útlagdar af

Sveinbirni Egilssyni, Adjúnkt.

Lands Skasafn

---


Videyar Klaustri,

Prentad á kostnad Bessastada Skóla.

1840.

# Odysseifs drápa.

## Tuttugasta og fyrsta bók.

Inntak: Penelópa sækir boga Odysseifs upp í vopnahúsið, og lætur leggja hann fram fyrir bidlana. Telemakkus reisir upp axirnar, og reynir þrísvar til að draga upp bogann; síðan taka bidlarnir við hvørr af ødrum, og géta ekki; þá lætur Antínous baka bogann við eld, til þess að mýkja hann. Á medan gengur Odysseifur út, og segir þeim Evmeus og Filetíus, hvørr hann sé, og hvad þeir skuli gjøra. Evrymakkus reynir sig við bogann, en það kémur fyrir ekki, skýtur Antínóus þá leiknum á frest til næsta dags. Odysseifur biður bidlana lofa sér að freista, hvørt hann muni fá upp dregið bogann, og vilja þeir það ekki, en fyrir tilløgur Penelopu og Telemakkusar verður það, að Evmeus færir honum bogann. Nú er læst øllum dyrum. Odysseifur dregur upp bogann, og skýtur ørinni í gégnum øll axaraugun.

---

Hin bláeyga gyðja Atena blés nú því í brjóst hinni vitru Penelopu Ikaríusdóttur, að leggja fram bogann og hin søgru axablød fyrir bidlana í høll Odysseifs; skyldi sú þraut verða upphaf að vígunum. Hún gekk

upp hinu bratta stiga að herbergi sínu, tók þar í hönd sér eirlykil, hann var fallega beygður, vel gerður, og lykilhaldið af fílsbeini; síðan gekk hún með þjónustumeyum sínum inn í innsta geymslusalinn, þar sem hún hafði lagt fyrir gersemar konúngsins, bæði eir og gull og hið seiginna járn. Þar lá hinn stadgóði bogi og örvamælirinn, í honum voru margar skaðvænar örvar; hafði hinn godumlíki Ifítus Evrýtusson, gestfélagi hans, gefið honum þessa gripi, þá hann eitt sinn hitti hann í Lakedemóna landi. Því svo bar við, að fundum þeirra beggja bar saman í höll hins fróðhugaða Orsílokks í Messenu; kom Odysseifur þángað þess erindis, að heimta skuldafé, er allur landslýðurinn skyldi lúka honum: því Messenumenn höfðu farið á róðrarferjum til Iþöku, og rænt þaðan þrem hundruðum sauða og hjarðmönnunum með; fór Odysseifur fyrir þá sök þessa sendiför um lángan veg, var hann þá úngur að aldri, og var sendur af föður sínum og öðrum formönnum lýðsins. En það var erindi Ifítusar, að hann var að leita að hrossum nokkurum, sem hann hafði mist, það voru tólf hryssur, og gengu undir þeim þolnir múlfolar; urðu þessar hryssur honum síðar meir að bana og fjörtjóni, þá hann kom til hins hugsterka sonar Seifs, kappans Herakless, er mörg stórvirki vann, því Herakles drap hann heima hjá sér, og var Ifítus þó gestfélagi hans; sá það á, að Herakles lét sér ekki allt fyrir brjósti brenna, er hann óttaðist ekki hefnd guðanna, og virdti einskis, það gestaborð, er hann hafði sett fram fyrir hann, heldur drap hann allt að einu, og héldt hans hófsterku hryssum hjá sér í húsum sínum. Þegar Ifítus var að spyrja eptir þessum hrossum, fann hann Odysseif, og gaf honum þá bogann: þann boga hafði

hinn mikli Evrýtus borið fyrr meir, og eptir lét hann syni sínum í höll sinni á deyanda degi; en Odysseifur gaf honum aptur biturlegt sverð og sterkt spjót: var það upphaf trúrrar gestvináttu þeirra með al, en þó sátu þeir aldrei til borðs saman, því, áður en það yrði, drap sonur Seifs hinn goðumlíka Ifítus Evrýtusson, sem gefið hafði Odysseifi bogann. Þenna boga tók hinn ágæti Odysseifur aldrei með sér, þá hann fór í víking á herskipum, heldur var boginn þá geymdur á þessum sama stað í höll hans, en ávallt bar Odysseifur bogann, þá hann var heima í landi sínu. Nú sem hin ágæta drottníng kom að þessum geymslusal, steig hún upp á þröskuldinn; sá þröskuldur var af eik, og hafði smiður nokkurr fyrr meir telgt hann haglega til og gert þráðbeinan, hafði hann greypt dyrustafina ofan í þröskuldinn, og látið þar fyrir fallegar hurðir. Penelopa leysti þegar lokubandið úr hurðarhríngnum, hleypti inn lyklinum beint framm undan sér, og skaut frá hurðarlokunum. En er hinar fögru hurðir kendu lykilsins, gall í þeim, eins og þá griðúngur gellur í haga úti, lukust þá dyrnar skjótt upp. Penelopa steig upp á fjalapall nokkurn; þar stóðu á kistur, og í þeim geymd ilmandi klæði. Drottníngin seildist til af pallinum, og tók bogann ofan af naglanum, var gerður allfagur stokkur að boganum, og tók hún ofan stokkinn með öllu saman. Síðan settist hún niður á pallinn, og lagði stokkinn á kné sér; grét hún nú hástöfum, og tók boga kontíngsins upp úr stokkinum. En er hún hafði svalað sér á hinum táruga harmi, gekk hún inn í stofu til hinna göfugu biðla, og heldt á hinum stælta boga og örvamælirnum, sem hafði mörg mannhætt skeyti að geyma. Nokkurar þjónustumeyar voru með henni, og báru eina

ørk, þar var geymt í mikið af járni og eiri, er konúngurinn var vanur að hafa til kappleika. En er hin ágæta kona kom til bidlanna, staðnæmdist hún við dyrustaf hins vandaða sals, og hafði fyrir kinnum sér dýrlega høfuðblæu. Þvínæst talaði hún til bidlanna, og tók svo til máls: heyrið mér, þér hinir vøsku bidlar, er vanið hafið komur yðrar sí og æ í hús þetta til að eta og drekka, alla þá stund er maðurinn minn hefir á burtu verið, og er það lángur tími, og hafið þér ekki getað borizt annað fyrir, en að yður léki í mun að kvongast og fá mín. Komið nú til, bidlar, hér er til nokkurs að vinna! Eg vil leggja fram fyrir yður hinn mikla boga hins ágæta Odysseifs; þeim, sem hægast veitir að draga upp bogann með handafli, og skýtur øru í gegnum allar tólf axirnar, honum skal eg fylgja til eignorðs, og yfirgefa þetta hið fagra og gagnauðuga hús bónda míns, sem eg hugsa að mér verði næsta minnistædt á síðan, svo að mig jafnvel mun dreyma til þess á næturnar. Að því mæltu bað hún hinn ágæta svínahirðir, Evmeus, að leggja fram bogann og hin føgru axablóð fyrir bidlana. Evmeus tók við boganum grátandi, og lagði hann fram; nautahirðirinn grét og annarsvegar, þegar er hann leit konúngsins. En Antinóus deildi á þá, tók til orða og mælti: þér heimskir búkarlar, sem ekki hugsið til næsta máls! Hví tárast vesælmenni yðar, og vekið harm í brjósti konu þessarar? Hún hefir nóga hjartasorg samt, þar sem hún hefir mist ástkæran eiginmann sinn. Gerið annaðhvørt, að þér sitjið kyrrir að mat, eða farið út og grátið þar, og látið bogann hér eptir; munum vér bidlarnir leggja þenna leik til þrautar, og hygg eg þó, að eigi muni allaudveldt að benda þenna hinn fagurskygða boga; því eingin af

øllum þeim, sem hér eru, er jafnoki Odyssevs; eg man eptir honum, því eg sá hann, þegar eg var barn. Svo mælti hann, því hann gerdi sér í hugarlund, ad hann mundi fá upp dregid bogastrenginn og hæft í gegnum axaraugun; en þad lá fyrir honum raunar, ad kenna fyrstum á ørvarskoti frá hinum ágæta Odysseifi, þeim er hann óvirdti fyrrum, þá er hann sat í høllinni, og eggjadi alla félaga sína til þess líka. Hinn kraptagódi Telemakkus tók nú svo til orda: sárt er til þess ad vita, ad Seifur Kronusson skuli hafa látid mig verda svo athugalausan, ad þegar módir mín, sem er vitur kona, segir mér, ad hún muni skiljast vid hús þetta, og gánga ad eiga annan mann, þá býr mér hlátur í hug, og em hinn kátasti, og er slíkt næsta óviturlegt. Komid nú til, bidlar, fyrst til slíks er ad vinna, þar sem sú kona er, ad ekki finnst nú hennar líki um allt Akkealand, hvørki í enni helgu Pýlusborg, né í Argiaborg, né í Mýkenuborg, eins og ydur er sjálfum kunnugt; hvad þarf eg ad hrósa fyrir ydur atgervi módur minnar? Heyrid nú, leitid nú einskis í, ad þessum leik verdi frestad, og skorist eigi lengur undan ad draga upp bogann, svo vér sjáum, hvørsu þessu máli lýkur. Eg em og albúinn sjálfur, ad reyna mig vid þenna boga; því ef eg fæ hann upp dregid, og skotid øru í gegnum axaraugun, þá mun mér verda harms léttara, þó módur mín fari af þessu heimili og gángi med ødrum manni, ef eg skilst svo vid hana, ad eg sé nú þegar ordinn þess um kominn ad halda uppi hinum ágætu íþróttum fødur míns. Ad því mæltu spratt hann á fætur, lagdi af sér þá purpuraskikkju, er hann hafdi yfir sér, og tók hid bitra sverd af herdum sér. Fyrst gerdi hann eitt lángt far fyrir øll axablødin, risti þad eptir mæliþrædi, svo þad

yrdi beint, og setti þar upp axablødin, tróð svo mold utan ad; furdadi alla sem, þad sáu, hvørsu hann reisti axirnar høndugloga, þar sem hann hafdi þó aldrei séd þad fyrir sér ádur. Sídan gekk hann upp á þrosfuld-inn, og stód þar, og tók til ad fást vid bogann. Hann knúdi bogann þrisvar, og neytti sín til þess ad fá hann spentan, en þrisvar vard hann ad sleppa tøkunum, rétt í því ad hann ætladi, ad hann mundi fá upp togad bogastrengin og skotid ørinni gegnum axaraugun; og þeg-ar hann togadi strenginn í fjórda sinni, sem hann mátti mest, þá hefdi hann getad dregid upp bogann, ef Odyss-eifur hefdi ekki gert honum bendíngu og aptrad honum, þegar hann var sem ákafast ad. Þá tók hinn krapta-gódi Telemakkus aptur svo til orda: þetta er mikil mínkun! annadhvørt er, ad eg verd ónýtur og þreklaus alla mína æfi, eda mér er enn ekki fullfarid fram til þess, ad eg megi treysta krøptum mínum til ad verja mig, ef einhvørr rædst á mig ad fyrra bragdi. En þér, sem erud mér kraptameiri, takid nú bogann, og reynid yd-ur, og gerum svo enda á leik þessum. Ad því mæltu lagdi hann frá sér bogann á gólfid, og reisti hann upp vid hinar feldu, fagurskofnu hurdir, en setti hid bitra skeyti upp vid hinn fagra bogahals, settist sídan aptur á þann hástól, sem hann hafdi ádur á setid. Þá tók Antínóus til orda, Evpítesson: Rísid nú upp allir, félagar, hvørr eptir annan, og takid til hægri handar megin, þadan frá sem vínid er byrlad. Svo mælti Antínóus, og líkadi þeim svo ad hafa, sem hann mælti. Stód þá fyrstur upp Leódes Enópsson; hann var brennifórnar-spámadur hjá bidlunum, og sat ávallt innst-ur hjá hinu fagra skaptkéri, var hann sá eini, sem óbeit hafdi á ofsvæsni bidlanna, og líkadi honum illa vid þá

alla. Hann tók þá fyrstur bogann og hið bitra skeyti, gékk upp á þrøskuldinn, stóð þar, og tók til að fást við bogann, en hann gat eigi dregið hann upp; hann þreyttist fyrr í handleggjunum, en hann feingi bendt hann til fulls, því hendur hans voru óhardnaðar og veiklegar. Hann mælti þá til biðlanna: ekki fæ eg dregið upp bogann, vinir; taki aðrir við! því þessi bogi mun verða mørgum afreksmanni að fjørlesti; enda er það miklu betra fyrir oss að deya, en lifa svo. að vér førum á mis við það sem vér høfðum til ætlazt. þá er vér vøndum hingað á vallt komur vorar og bíðum hér dægur og daga. Vera kann, að einhvør yðar hafi nú í hyggju og lángi til að eignast Penelopu, eiginkonu Odysseifs; en þegar hann hefir reynt sig við bogann og séð leikslokin, þá mun hønum ráðlegast, að biðja einhvørrar annarar af hinum fagurmøttluðu konum Akkea, og leita við að vinna hana með brúðargáfum; en Penelopa mun giptast þeim manni, sem henni færir flestar gjafir, og sem henni á að auðnast að fá. Að því mæltu lagði hann frá sér bogann, og reisti hann upp við hinar feldu, fagurskøfnu hurðir, en lagði hið bitra skeyti upp við hinn fagra bogahåls; settist síðan aptur á þann hástól, sem hann hafði áður á setið. Antinóus átaldi hann, tók til orða og mælti: enn að þér, Leóðes, skuli slík orð um munn fara, sem bæði eru hræðileg og óþægileg — mér gremst í geði, þegar eg heyri þau — að þessi bogi muni verða øðrum afreksmønnum að fjørlesti fyrir það, þó þú gétir ekki dregið hann upp. Þess er ekki heldur von af þér, því þú fæddist ekki með því atgjørfi, að þú gætir orðið duganði bogmaður og skotmaður, en hinir biðlarnir eru svo vaskir menn, að þeir munu skjótt fá bogann upp dregið. Að því mæltu hét hann á Melantíus geita-

hirdir: fardu fljótt, Melantíus, sagdi hann, kveyktu upp eld í høllinni, set þar hjá stóran stól, og gæruskinn yfir, tak sídan stóran skjøld af tólg þeirri, sem inni er; munum vér hinir úngu menn þá verma bogann og smyrja med feiti, renna oss svo vid hann og enda þenna kappleik. Svo mælti hann, en Melantíus kveykti upp glædilegan eld, sókti stól og setti hann þar hjá, og breiddi gæruskinn yfir, kom sídan med stóran tólgarskjøld af tólg þeirri, sem inni var. Hinir úngu menn bøkudu nú bogann og reyndu sig svo vid hann; þó gátu þeir ekki dregid hann upp, því þeim vard helst til aflfátt. Þó gengu þeir enn ekki til leikssins, fyrirmenn bidlanna, þeir Antínóus og hinn godumlíki Evrymakkus, sem voru lángt um fram adra ad karlmennsku.

Nú gengu þeir út úr stofunni bádir undir eins, nautahirdir og svínahirdir hins godumlíka Odysseifs; og hinn ágæti Odysseifur gékk út á eptir þeim. En er þeir voru komnir út fyrir dyrnar og forgardinn, tók Odysseifur til máls, og taladi til þeirra blídlega: þú, nautahirdir, og þú, svínahirdir! eg vil tala nokkud vid ykkur; eda á eg ekki ad gera þad uppskátt? jú, hugur minn býdur mér ad gjøra þad. Hvørsu mundud þid bregdast undir lidveizlu vid Odysseif, ef hann kæmi híngad einhvørstadar ad, og eingi vissi fyrri til, en einhvør Gud hefdi flutt hann í land? Mundu þid þá veita bidlunum eda Odysseifi? Segid mér, eins og ykkur býr í skapi. Nautahirdirinn svaradi honum: Fadir Seifur, lát þá ósk mína rætast, ad þessi afreksmadur, sem þú umtalar, komi; og leidi einhvør bjargvættur hann heim. Þá skyldir þú komast ad raun um, hvørs eg er um kominn, og ad eg hefi krapta í køglum. Á sama hátt hét Evmeus á alla gudina, ad þeir léti hinum margvitra Odysseifi audnast

ad koma aptur heim í hús sitt. En er Odysseifur vissi, hvørr hugur þeirra var í alvøru, þá svaradi hann þeim aptur og sagdi: Eg er nú hér, og kominn heim til mín; eptir margar raunir afstadnar er eg á 20ta ári heim kominn í fødurland mitt. Eg sé, ad þid tveir erud þeir einu af þrælum mínum, sem fegnir erud heimkomu minni; því eg hefi ekki heyrt nokkurn af hinum þrælunum óska, ad eg væri heim aptur kominn. Nú skal eg segja ykkur satt frá, á hvørju þid eigid von. Ef Gud lofar mér ad yfirbuga hina vøsku bidla, þá skal eg fá ykkur kvonfaung hvorumtveggjum, og gefa ykkur fjárstofn og uppgért hús hér nálægt mér, og upp frá því skal eg álíta ykkur sem félaga og albrædur hans Telemakkusar. Takid nú eptir, eg skal hér á ofan sýna ykkur eina augljósa jarteikn, svo þid skulud kannast vid mig fullkomlega, og verda þar um sannfærdir med sjálfum ykkur. Lítid á ørid, sem eg ber eptir sár það, er gøltur nokkur veitti mér eitt sinn med hvítri tønn sinni, þá eg fór upp á Parnasus-fjall med Avtolýkussonum. Ad því mæltu fletti hann tøtrunum frá hinu mikla øri; en er þeir høfdu skodad ørid og tekid vandlega eptir øllu, þá umfødmudu þeir hinn fródhugada Odysseif og grétu, føgnudu honum, og kystu bædi høfud hans og herdar, og eins kysti Odysseifur høfud þeirra og hendur; og þarna hefdu þeir verid ad gráta af gledi til sólarlags, ef Odysseifur hefdi ekki bedid þá ad hætta, og sagt vid þá: Hættid þessum gráti og harmi; eg veit ekki nema einhvørr komi út úr stofunni og sjái til ykkar, og segi svo frá því inni. Gángid inn, hvørr sér; vid skulum ekki fara inn allir undir eins; eg skal gánga fyrstur, og þid svo á eptir mér. En þetta skulud þid hafa til marks: einginn af hinum vøsku

bidlum mun vilja leyfa, ad mér sé fenginn boginn og örvamælirinn, en þá skaltú, ágæti Evmeus, sá mér í hendur bogann, þá þú geingur med hann um stofuna; sídan skaltu segja ambáttunum ad læsa hinum velfeldu hurdum á herbergi sínu, og þó einhvør þeirra heyri stun eda háreysti til manna hér inni í vorum herbergjum, þá banna þeim ad gægjast fram, en seg þeim ad vera kyrrum vid vinnu sína, þar sem þær eru. En þér fel eg á hendur, ágæti Filetíus, ad hleypa lokunni fyrir forgardsdyrnar, og reyra þær aptur í flýti. Ad því mæltu gekk hann inn í þau velsettu herbergi, og settist aptur á þann stól, sem hann hafdi ádur á setid; sídan gengu þeir inn einnegin, bádir þrælar hins godumlíka Odysseifs.

Evrymakkus handlék þá bogann, og bakadi hann alla vega vid eldslogann, en allt fyrir þad gat hann ekki dregid hann upp. Þá stundi hans prúdlynda hjarta mjög; hann vard ángurvær, tók til orda og mælti: æ, sannarlega tekur mig þetta sárt, bædi sjálfs míns vegna og okkar allra, og ekki fellur mér eins nærri um kvonfángid, þó eg sé næsta hugsjúkur um þad: þad eru nógar adrar Akkeakonur til, bædi á hinni umflotnu Itöku og í ödrum borgum. Hitt fellur mér sárara, ad vér erum svo miklu kraptaminni en hinn godumlíki Odysseifur, ad vér skulum ekki fá upp dregid boga hans; því þad er mikil skömm,' og illt til afspurnar jafnvel hjá eptirkomandi mönnum. Antínóus Evpítesson svaradi honum: þessu má ekki fram fara, eins og þér gétur sjálfum ad skilja, þar sem nú er haldin heilög hér í landinu hátíd slíks Guds. Hvør madur ætli þá fáist vid bogadrátt? Nei, leggid bogann frá ydur, og sitjid kyrrir; en óhætt mun vera, þó vér látum axirnar standa, því einginn held eg muni verda til þess ad fara inn í

høll Odysseifs Laertessonar til ad taka þær. Heyrid nú til, nú skal byrlarinn skenkja á bikarana ad nýu, skulum vér svo dreypa dreypifórn, og ad því búnu leggja fyrir þenna hinn bjúga boga; en á morgun skulud þér segja geitahirdirnum Melantíusi ad koma hingad med þær geitur, sem vænlegastar eru í øllum geithjørdunum, skulum vér þá færa Appollon Bogagudi lærleggi í fórn, og ad því búnu freista bogans og enda leik þenna. Svo mælti Antínóus, og líkadi øllum þad er hann mælti. Heltu nú kallararnir vatni á hendur þeim, en þjónustusveinarnir fyltu skaptkérin á barma med drykk, skenktu á bordkérin, og fengu hvørjum sinn bikar. En er þeir høfdu dreypt, og drukkid sem þá lysti, tók hinn slægvitri, margrádugi Odysseifur svo til máls: Hlýdid til, þér bidlar ennar vídfrægu drottníngar. Einkanlega bid eg Evrymakkus, svo og hinn godumlíka Antínóus þar ed hann hefir farid hér um vidurkvæmilegum ordum, ad þér hættid nú bogaleiknum, og felid þad mál gudunum á vald; en á morgun mun sá hafa gagn, sem Gud vill. Nú er sú bón mín til ydar, ad þér ljáid mér hinn fagra boga, þækti mér gaman ad reyna, eins og þér, handa afl mitt, hvørt eg muni enn hafa þann krapt í køglum, sem eg hafda fyrr meir, eda muni hrakníngurinn og adhjúkrunarleysid drepid hafa allan kjark í mér. Svo mælti hann, en þeim þókti øllum stórkostlega fyrir, þar þeir voru hræddir um, ad hann mundi fá upp dregid hinn fágada boga. Antínóus átaldi hann, tók til orda og sagdi: Þú ert ekki med øllum mjalla, gestur hinn vesæli; nægir þér þad ekki, ad þú mátt sitja hér ad veizlu í makindum ásamt med oss afreksmønnunum, og ert aldrei settur hjá, þegar farid er med eitthvad matarlegt, og mátt heyra á ordrædur

vorar og tal, sem vér annars lofum engum gesti né gánganda? Hið gómsæta vín hefir svifið á þig, en vínið verður mörgum að meini, þeim er slokar það í sig, og drekkur setníngslaust. Vínið varð Kentárinum að tjóni, hinum nafnfræga Evrytioni, þá hann kom til Lapitalands í höll hins hugstóra Pirítóuss; því þegar hann var búinn að drekka frá sér vitið, varð hann óður og hafði illt í frammi í húsi Pirítóusar, urðu kapparnir þá gramir, stukku upp, og drógu hann út í gegnum forstofuna, og sniðu af honum nef og eyru með hörðu járni; en hann, sem ekki vissi sitt rjúkandi ráð, dróst í burt, og bar skaða sinn í ráðleysu; gerðist síðan ófriður milli Kentára og Lapita, og var Evrytion sá fyrsti, sem beið þar bana, enda var hann þá víndrukkinn. Eins spái eg að þú hafir eitthvört stórt ólán af því, ef þú dregur upp bogann, því þá muntu engra góðra atlota njóta í voru húsi, heldur munum vér láta þegar flytja þig á byrðíngi til Ekétus kóngs, er sálgar öllum mönnum, er til hans koma, muntu aldrei þaðan með lífi komast; þess vegna er best fyrir þig að drekka í kyrð, en fara ekki í kapp við þér ýngri menn. Hin vitra Penelopa svaraði honum: eigi er það sæmilegt, Antinóus, og ekki heldur réttvíst, að unna ekki jafnaðar gestum Telemakkusar, þeim er koma í þetta hús. Hugsar þú, þó gestur þessi fái upp dregið hinn mikla boga Odysseifs af handafli sínu, að hann muni hafa mig heim til sín og gera mig að eiginkonu sinni? Eg held honum geti varla komið þetta til hugar sjálfum; þarf einginn yðar að setja það fyrir sig, eða láta standa sér fyrir ölteiti, því slíkt er síður en ekki jafnræði. Evrymakkus Polybusson svaraði henni aptur: vitra Penelopa, Ikaríus dóttir, ekki kemur oss það til hugar, að

þessi madur muni gánga ad eiga þig, því þad sæmir eigi; heldur óttumst vid ordtal karla og kvenna, ad einhvørr af Akkeum, sem oss er ófræknari, taki svo til orda: ekki eru þeir hótinu knárri en adrir, þeir menn sem bidla til konu þessa hins ágæta manns, þar sem þeir ekki fá upp dregid hinn fagra boga; því hér kom einn útlendur madur, fátækurførukarl nokkurr, hann dró bogann fyrirhàfnarlaust, og skaut í gegnum axaraugun. Þannig munu menn ad ordi kveda, og verdur þetta okkur til ámælis. Hin vitra Penelopa svaradi hönum: med aungvu móti má þad verda, Evrymakkus, ad þeir menn verdi þokkasælir hjá alþýdu, sem svo svívirdilega eyda búi þessa ágætismanns. Hví teljid þér ydur þá minkun í hinu? Gestur þessi er mjøg mikill vexti og næsta þreklegur, og segist kominn vera af gøfugu faderni. Fáid hönum nú hinn fagra boga, svo vér sjáum, hvad hann má; því svo mæli eg um, og þad skal eg efna, ad ef hann dregur upp bogann, og gefi Appollon hönum sigur, þá skal eg fá hönum sæmileg klædi, yfirhøfn og kyrtil, til ad vera í; eg skal og gefa hönum oddhvast spjót, til ad verja sig med fyrir hundum og mønnum, og tvieggjad sverd; líka skal eg fá hönum skó á fæturna, og láta flytja hann hvørt á land sem hann vill. Hinn greindi Telemakkus svaradi henni og sagdi: módir mín, einginn af Akkeum hefir meiri rád á boganum, en eg, hvørt sem eg vil ljá hann nokkurum eda synja hans; einginn af þeim, sem ríki hafa á hinni grýttu Itøku, eda á eyunum hjá því hestaudga Elealandi, skal taka rádin af mér naudugum, enda þó eg vildi gefa gestinum þenna boga alveg med sér. En þú gakk nú inn í herbergi þitt, og annast vinnu þína, vefinn og snældunna, og bid þjónustumeyarnar ad fara til vinnu sinnar. Vér karlmennirnir eigum ad ann-

ast bogann, og einkum eg, sem er hér húsráðandi. Henni brá mjøg vid þessi ord; hún gekk aptur til herbergis síns, því hún lagdi á hjarta viturleg ord sonar síns. En er hún var komin upp á lopt med þjónustumeyum sínum, grét hún Odysseif, sinn kæra mann, þar til hin bláeyga Atena brá sætum svefni yfir augu hennar.

Hinn ágæti svínahirdir tók nú hinn bjúga boga, og fór med hann. urdu allir bidlarnir þá háværir í stofunni, og þá sagdi einhverr af hinum ofstopafullu úngmennum: hvert ætlar þú ad fara med hinn bjúga boga, illa ræmdi svínahirdir? Ertu med vitinu? Senn munu fráir hundar, sem þú hefir sjálfur upp alid, rífa þig í sundur, þar sem þú situr yfir svínunum einmana lángt frá ødrum mønnum; þad mun verda, svo framarlega sem Appollon og adrir ódaudlegir gudir verda oss líknsamir. Svo mæltu þeir, en svínahirdirinn, sem bogann bar, lagdi hann nidur þegar í stad, því hann vard hræddur, þegar svo margir menn gjørdu háreysti í høllinni. En hins vegar ógnadi Telemakkus honum og kalladi til hans: berdu bogann lengra, fadir sæll, þér mun senn ekki hlýda, ad gera eins og allir vilja; þú veizt ekki, nema eg, þó eg sé ýngri, elti þig út á landsbygdina og fleygi grjóti eptir þér, því eg er sterkari en þú. Eg vildi óska, ad eg væri eins fremri ad burdum og hardfylgni, en allir þeir bidlar, sem hér eru innan hallar; þá skyldi eg vísa sumum hverjum med hardri hendi burt úr húsi voru, því þeir hafa hér ill rád med høndum. Svo mælti hann; þá hlóu allir bidlarnir dátt ad svínahirdirnum, en reidduzt nú ekki svo mjøg Telemakkusi. Svínahirdirinn fór nú med bogann eptir stofunni, nam stadar hjá hinum fródhugada Odysseifi, og fékk honum bogann. Sídan kalladi hann á fóstruna Evrykleu,

og sagdi til hennar: Telemakkus bidur þig, vitra Evrykleu, ad loka hinum velseldu hurdum herbergjanna, og þó einhvør ambáttanna heyri stun eda háreysti til manna hér inni í vorum herbergjum, þá mega þær ekki gægjast fram, heldur veri þær kyrrar vid vinnu sína, þar sem þær eiga ad vera. Svo mælti hann, en hún fékk stad ordum hans, og lokadi aptur hurdum hinna velsettu herbergja. Filetius hljóp út úr stofunni, svo lítid bar á, og lokadi dyrum hins velumgyrdta forgardsð. Þar lá skipskadall úr pappírsvidar basti hjá stólpagánginum, med þeim kadli reyrdi hann fastar hurdirnar, gekk sídan inn, og settist á þann stól, sem hann hafdi ádur á setid, og hafdi augun á Odysseisi. Odysseifur handlék nú bogann, snéri honum fyrir sér alla vega, og hugdi ad hvervetna, hvørt eigi mundu yrmlíngar nagad hafa boghálsana í fjærveru eigandans. Þá leit einhvørr bidlanna til þess, er næstur honum sat, og kvad svo ad ordi: þetta er víst einhvørr sjónhagur madur og kænn vid boga; eitt er af tvennu, ad hann annadhvørt á heima hjá sér slíkan boga, edur og ad honum er í hug ad smída sér annan eins; hann snýr boganum svo fyrir sér á báda bóga, förukarl þessi, sem eigi hefir ödru en illu vanizt. Þá sagdi einhvørr af hinum ofstopasullu úngmennum: eg vildi óska, ad þessi karl hrepti hamíngjulán ad því skapi, sem hann getur þenna boga upp dregid. Svo mæltu bidlarnir; en er hinn margrádugi Odysseifur var handhafi ordinn ad hinum mikla boga, og hafdi skodad hann umhverfis, þá dró hann þegar bogann upp, fórst honum þad eins höndulega og saungkænum hörpuslagara, sem vindur strenginn upp á sváuýjan hörpulykilinn, og spennir hann eins og honum er hægast, þegar hann ádur er búinn ad festa hid velsnúna

girni til beggja endanna; eins dró Odysseifur upp hinn mikla boga þrautarlaust. Þá tók hann til hægri hendi sinni, og drap henni á bogastrenginn, saung þá fagurt í strengnum, og var hljóðið í honum líkt svölusaung. Þá kom að biðlunum stór hugarkvíði, og urðu litverpir allir, en Seifur lét birtast jarteiknir, og lét koma stóra reiðarþrumu. Varð hinn margþjáði, ágæti Odysseifur þá glaður, er sonur hins lævísa Kronusar sendi honum þessa jarteikn. Þá tók hann hið bitra skeyti, það lá bert hjá honum á borðinu, en hinar örvarnar voru niðri í örvamælirnum, og á þeim áttu Akkear bráðum að kenna. Hann bar nú örina við bogarifið, dró bogastrengin og strengstaugarnar, rétt þar sem hann sat á stólnum; hann gerði hæfing beint framm undan sér, og lét hlaupa örina af strengnum, misti hann ekki þess axaraugans, er fremst var, og gekk eirskeytið út í gegnum allar axirnar. Þá mælti hann við Telemakkus: einga minkun gerir þessi gestur þér í höllinni, þó hann sitji hér. Ekki geigaði skotið hjá mér, og ekki var eg lengi að rogast við að draga bogann. Eg hefi enn óskerðta krapta mína, og ekki er eg eins linur, eins og biðlarnir álasa mér. Nú er mál fyrir Akkea að búa til kvöldverðar, meðan bjart er, og því næst skemta sér með öðru, saung og hörpuslætti, sem er veizlunnar prýði. Í því hann sagði þetta, bendti hann Telemakkusi með augnabrúnunum; þá lagði Telemakkus, hinn ástkæri sonur þess goðumlíka Odysseifs, bitурт sverð um herðar sér, og greip spjót í hönd sér, gekk síðan að stólnum til hans, og stóð þar, vopnaður blikanda málmi.

# Odysseifs drápa.

## Tuttugasta og ønnur bók.

Inntak: Odysseifur kastar dularbúníngnum, støkkur upp á hallar þrøskuldinn, og skýtur Antinóus til dauds, segir svo bidlunum, hvørr hann sé, og hvad hann ætlist fyrir. Bardagi. Evrymakkus og Amfinomus falla. Melantíus er bundinn. Allir bidlarnir eru drepnir; Femíus og Medon fá grid; hinar ótrúu ambáttir eru hengdar, Melantíus aflimadur og drepinn. Odysseifur lætur hreinsa høllina med brennisteini.

---

Hinn margrádugi Odysseifur kastadi nú af sér tøtrunum, og hljóp upp á hinn háfa þrøskuld, og hafdi í hendi sér bogann og ørvamælirinn, fullan af skeytum. Hann steypti hlnum skjótu ørvum nidur fyrir fætur sér á þrøskuldinn, og mælti til bidlanna: Nú er þessi leikur reyndur til fulls, en nú mun eg velja mér annad hæfíngarmark, sem eingi madur hefir enn til skotid, og vita, ef eg fæ hitt þad, og hvørt Appollon vill unna mér sæmdar. Ad því mæltu gerdi hann hæfíng med hinu bitra skeyti eptir Antinóusi. Antinóus ætladi í þessu ad taka upp fagran gullbikar med tveimur handarhøldum, og nú handlék hann bikarinn, og ætladi ad drekka sér vínsopa, og átti nú sízt von á dauda sínum; því hvørjum manni gæti til hugar komid, ef hann væri í samsæti med ødrum bodsmønnum, ad einn madur, hvad hraustur sem væri, mundi í fjølmenninu skapa sér dapran dauda og dimma feigd. En Odysseifur gerdi hæfíng eptir honum,

og skaut örinni í barka honum, gekk örvaroddurinn þvers í gegnum hinn mjúka háls; hann valt þá út af á adra hlidina, en bordkérid féll úr hendi hans, þá hann fékk skotid, og þegar stód digur blódbogi út um nasir hans; hann spyrndi fætinum í ofbodi, og hratt frá sér bordinu, svo maturinn hrökk ofan á gólf, en braudid og steikin vard allt í blódi. Þegar bidlarnir sáu, ad madurinn var fallinn, gerdu þeir hávada mikinn í höllinni, spruttu upp af hástólunum, ædda innan um stofuna, og skygndust alla vegi upp um hina velbygdu veggi, en hvörgi var skjöld eda nokkurt sterkt spjót ad fá. Þeir ógnudu þá Odysseifi med þessum heiptar ordum: illa mun þér þad géfast, gestur, ad skjóta ad mönnum, muntu eigi optar gánga ad slíku leikfángi; nú er þér brádur bani vís, því nú hefir þú vegid þann mann, sem miklu er göfgastur úngra manna á Itöku, og fyrir því munu gammar slíta hér hræ þín. Ekki höfdu bidlarnir allir eina ætlan um þenna atburd, því þeir héldu, ad hann mundi eigi manninn viljandi drepid hafa; en hitt vissu þeir ekki, hinir heimsku menn, ad nú var þeim sjálfum bani búinn öllum samt. Hinn rádagódi Odysseifur leit þá til þeirra med reidisvip, og mælti: þér hugsudud, hundarnir, ad eg munda eigi framar heim aptur koma frá Trójulandi, og þess vegna eyddud þér búi mínu, naudgudud ambáttunum til samlags vid ydur, og bádud konu minnar, ad mér sjálfum lifanda, án þess þér óttudust gudina, þá er byggja hinn vída himin, eda skeyttud hid minnsta um, ad þetta mundi á sídan mælast illa fyrir af mönnum. Nú er ydur öllum einneiginn brádur bani búinn. Svo mælti hann, en bleikur óttinn greip þá alla, og þordi einginn ad tala til hans ord, nema Evrymakkus, hann sagdi:

Ef það er víst, að þú ert Odysseifur frá Iþöku, sem híngað ert kominn, þá er það satt, sem þú segir, að Akkear hafa framið mörg vondskuverk hér í höllinni, og eins úti á landsbygðinni. En nú liggur sá fallinn, sem upphafsmaður er alls þessa, og það er hann Antínóus; því hann er valdur að þessum verkum, var honum þó ekki svo mjög um það hugað, að kvongast, eins og honum var annt um nokkuð annað, er hann hafði í hyggju, þó Kronusson léti honum það ekki lánast, sem var það, að hann vildi verða Kóngur yfir Iþökulandi, gera syni þínum launsátur og drepa hann. Hann er nú fallinn, eins og maklegt er. Væg því mönnum þínum; vér skulum þá síðar, þegar vér höfum þegið landsgrið af þér, bæta þér að fullu, það sem etið og drukkið hefir verið í höllinni, skal hvörr vor gjalda fyrir sig andvirði 20 uxa, skal það greiðast í eiri og gulli, svo þú sért vel sæmdur af, því ekki er þér láanda, þó þú viljir ekki sættast, fyrr enn þú hefir fengið skaða þinn bættan. Hinn margráðugi Odysseifur, leit til hans reiðuglega, og mælti: Evrymakkus, þó þér gylduð mér allan föðurarf yðvarn, sem þér nú eigið, og þar á ofan annað fé, sem yður hefir bættst út í frá, þá er nú svo komið, að eg mun ekki bindast manndrápa, fyrr enn eg hefi hefnt alls þess yfirgángs, sem þér biðlar hafið gert. Nú eru tveir kostir fyrir höndum, annaðhvört að berjast við mig, eða flýa, þeim sem þess verður auðið að komast undan feigð og fjörtjóni, og er það þó ætlan mín, að einginn yðar muni umflýa bráðan bana. Svo mælti hann, en þeir urðu svo skelkaðir, að kné þeirra og hjörtu urðu máttvana. Þá tók Evrymakkus til orða í öðru sinni, og mælti til biðlanna: Heyrið, vinir, ekki mun heljar-maður þessi

láta hér vid lenda, heldur, med því hann er handhafi ordinn ad hinum fagra boga og ørvamælirnum, þá mun hann skjóta af hinum skafna þrøskuldi, uns hann hefir drepid oss alla. Látum oss því búast til bardaga; bregdid sverdunum, og hlífid ydur med bordunum vid hinum banvænu skeytum; vedum svo ad honum allir í einum hnappi, og vitum, ef vér fáum hrundid honum af þrøskuldinum og frá dyrunum. Gaungum sídan út í borgina, og ljóstum upp ópi sem brádast; mætti þá svo fara, ad þessi madur skyti nú af boga í sídasta sinni. Ad því mæltu brá hann hinu bitra sverdi; þad var af eiri, og tvíeggjad. Hann hljóp á móti Odysseifi, og grenjadi hrædilega. En í sama vetfángi hleypti hinn á- gæti Odysseifur ør af boganum, kom skotid í brjóstid hjá geirvørtunni, og hljóp hin skjóta ør inn í lifrina. Evrymakkus lét þá laust sverdid, svo þad féll á gólfid, en hann hríngsnérist, datt um bordid, og velti því med sér, svo maturinn hraut á gólfid og hinn tvíhvolfadi bikar: hann bardi enninu í gólfid í ofbodinu, sparkadi bádum fótunum í stólinn, svo hann hristist, þar til loks- ins sorti sé fyrir augu hans. Amfínomus gekk nú í móti hinum prúdlynda Odysseifi, og geisadi mjøg; hann hafdi brugdid hinu bitra sverdi, og ætladist til ad Odysseifur skyldi hrøkkva fyrir sér úr dyrunum. En Telemakkus vard fyrri ad bragdi, og lagdi eirslegnu spjóti í bak honum medal herdanna, svo út gekk um brínguna, en Amfínomus féll mikid fall, og skall fløtu andliti nidur í gólfid. Telemakkus støkk þá burt, og lét eptir hid lángskepta spjót, þar sem þad stód í Amfí- nomusi, því hann var hræddur um, ef hann færi ad kippa hinu lángskepta spjóti úr sárinu, ad þá mundi ein- hverr Akkea hlaupa á sig med sverdid undan sér og reka

sig í gegn, eda reida þad ad sér og høggva sig. Hann brá því vid og hljóp burt, og komst mjøg skjótt til fødur síns, og er hann var kominn til hans, taladi hann til hans skjótum ordum; Nú vil eg, fadir, sækja skjøld og tvø spjót handa þér, og hjálm, allan úr eiri gjørvan, sem vel falli ad høfdi þér; eg vil og sjálfur koma í alvepni, en fá svínahirdirnum og nautahirdirnum ønnur vopn; því best er ad vera vopnadur. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: hlaup þú eptir þeim; medan eg hefi ørvar til ad verjast med, munu þeir ekki fá hrakid mig frá dyrunum, þó eg sé einn. Svo mælti hann, en Telemakkus gerdi, sem fadir hans baud. Hann brá vid skjótt, og gekk til geimslusalsins, þar sem hin gódu vopn Odysseifs voru geymd; þar tók hann fjóra skildi, átta spjót og fjóra eirhjálma þykkfexta, og fór af stad med þá, og kom skjótt til fødur síns; fór hann fyrst sjálfur í vopnin, og sømuleidis herklæddu bádir þrælarnir sig, tóku sér sídan stødu hjá hinum fródhugada, brøgdótta Odysseifi. Medan Odysseifur hafdi ørvar til ad verjast med, hæfdi hann ávallt einhvørn af bidlunum, þann er hann skaut til í høll sinni, og féllu þeir hvørr um þveran annan. En er upp voru gengnar ørvarnar fyrir Konúnginum, þá reisti hann bogann upp vid hina skínandi hallarveggi hjá dyrustaf hinnar gólfføstu stofu; hann lagdi á herdar sér fjórlagdan skjøld, og setti á sitt hrausta høfud vellagadan hjálm med hrosshársfaxi, og grúfdi faxbustin, geigvænlega nidur á vid; því næst tók hann í høndur sér, tvø sterk spjót med eiroddi.

Á hinum velbygda húsvegg voru stigadyr nokkurar, og efst hjá þrøskuldi hinnar gólfføstu stofu úrgángur út í gaungin, voru þar fyrir velfeldar hurdir. Odysseifur bad hinn ágæta svínahirdir ad standa hjá þessum dyr-

um, og gæta dýranna; varð þar ekki að komizt nema einumeginn. Nú tók Agelás til orða, og vék máli sínu til allra biðlanna; góðir bræður, ætli einginn géti komizt upp stigadyrnar, til að gera lýðinn varan við, og láta hljóðið berast sem fyrst; mætti þá svo fara, að þessi maður skyti nú af boga í síðasta sinni. Melantíus geitahirðir svaraði honum: Ekki verður það, seifborni Agelás, því hinar fögru hallardyr eru þar rétt hjá, en útgángurinn út í ganginn næsta torsóktur, svo að einn maður, ef hann er hraustur, má vel verja hann, þó allir sæki að. Heyrið nú, eg vil fara upp í geymslusalinn, og sækja yður vopn til að fara í; því grunur minn er, að Odysseifur og hans frægi sonur hafi látið þau þar, og hvörgi annarstaðar. Að því mæltu fór Melantíus geitahirðir upp í geymslulopt Odysseifs, og komst inn um gáttina á herberginu; þar tók hann tólf skildi, eins mörg spjót, og jafnmarga eirhjálma þykkfexta, skundaði síðan af stað, og bar vopnin skjótt til biðlanna, og fékk þeim. Þá skaut Odysseifi skelk í bríngu, þegar hann sá þá vera að fara í vopnin, og skekja hin laungu spjót í höndum sér; þókti honum nú vandast sitt mál. Hann talaði þá til Telemakkusar skjótum orðum: Telemakkus, það er víst, að einhvör af ambáttunum í höllinni æsir illan ófrið í gegn okkur, eða þá, að það er hann Melantíus, sem gerir það. Hinn greindi Telemakkus svaraði honum: Eg er sjálfur skuld í þessu, faðir minn, en einginn annar; mér varð það á, að eg skildi hina velseldu hurð geymslusalsins eptir uppi á gátt, og hafa þeir hast einhvörn aðgætinn mann á gægjum. Far þú nú, ágæti Evmeus, og loka aptur salshurðinni, og komst eptir, hvört það muni vera nokkur af ambáttunum, sem hér er í verki með, eða það er hann Melantíus

Dolíusson, sem mig heldur grunar. Þannig ræddust þeir vid um slíkt. Nú fór Melantius geitahirdir ødru sinni upp í geymslusalinn, til ad sækia hin fogru vopn. Hinn ágæti svínahirdir vard þess var, og taladi þá þegar til Odysseifs, sem hiá honum stód: Seifborni Laertesson, margrádugi Odysseifur! þessi hinn meinsamlegi madur, sem vid hofdum grunadan, fer þar aptur upp í geymslusalinn. Seg mér nú glogglega, hvørt eg skal taka hann af lífi, ef eg á alls kosti vid hann, eda skal eg færa hann híngad til þín, ad þú skapir honum víti fyrir allan þann mikla yfirgáng, sem hann hefir í frammi haft í húsi þínu. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi honum: Vid Telemakkus munum verjast hér fyrir hinum vøsku bidlum í høllinni, þó þeir sæki fast ad. En þid skulud snara saman høndur og fætur á bak honum, kasta honum inn í geimslusalinn, og reyra fast hurdina ad ykkur; sídan skulud þid binda vid hann snúinn kadal, og draga hann upp med hinni háfu súlu, og allt upp ad þvertrjám, svo hann lifi þar lengi vid mikil harmkvæli. Svo mælti hann, en þeir róku vel eptir því, sem hann sagdi, og gerdu, eins og hann baud. Þeir brugdu vid skjótt og fóru upp í geymslusalinn; Melantius var þar fyrir, og vard ekki var vid þá, því hann var ad leita ad vopnum innst á salnum, en þeir stódu vid sinn dyrustafinn hvørr, og bidu hans. Nú kom Melantius geitahirdir, og héldt í annari hendi á føgrum hjálmi, en í hinni á vídum skildi, fornum og mygludum; þann skjøld átti øldúngurinn Laertes, og hafdi borid hann, þegar hann var í broddi lífs síns, en sídan hafdi skjøldurinn legid lengi, og voru raknadir upp saumarnir á fetlunum. En er Melantíus steig yfir þrøskuldinn, stukku þeir á hann, hofdu hendur á honum, og drógu hann

inn á hárinu, og sleyngdu honum nidur í gólfid, svo honum vard sárt vid; sídan snørudu þeir hendur hans og fætur á bak aptur mjøg hardfeingilega, og bundu þær saman med sárum fjøtri. eins og Laertesfonur, hinn þolgódi, ágæti Odysseifur, hafdi bodid; þeir bundu vid hann snúinn kadal, og drógu hann upp med hinni háfu súlu, og allt upp ad þvertrjám. Þá taladi Eumeus svínahirdir til hans þessum skapraunar ordum: Nú skaltú, Melantíus, liggja hér vel og leingi í nótt; rúmid, sem þú liggur í, er eins mjúkt og þér hæfir; ekki trúi eg ødru, en þú gétir ordid var vid, þegar hin árrísula Morgungydja kemur á gullstólnum upp af hinum rennandi Jardarstraumi, í þad mund, er þú ert vanur ad færa bidlunum geitur til bordhalds í høllinni. Þannig skildu þeir hann þar eptir, hneptan í hardan fjøtur; sídan fóru þeir í vopnin, lokudu aptur hinni glæsilegu hurd, og fóru til hins fródhugada, margbrøgdótta Odysseifs, og numu stadar hjá honum, og voru hinir vígamannlegustu. Stódu þeir nú fjórir uppi á þrøskuldinum, en innar frá í stofunni voru bidlarnir, var þad fjøldi manns, og margir hraustir. Þá kom þar til þeirra Atena, dóttir Seifs, hún hafdi tekid á sig líki Mentors, og var honum lík í vaxtarlagi og málrómi. En er Odysseifur sá hana, vard hann gladur, og mælti: firr mig nú vandrædum, Mentor, og minnst þíns kæra vinar; eg hefi ávallt verid þér gódur, og vid erum jafnaldrar. Svo mælti hann, og hugsadi, ad þetta mundi vera vígagydjan Atena: En hinsvegar gerdu bidlarnir mikid hárevsti inni í høllinni, og Agelás Damastorsson vard fyrstur til ad ógna Atenu med þessum ordum: Láttu ekki, Mentor, hann Odysseif túlka þig til ad hjálpa sér, en berjast í móti bidlunum;

því eg hygg, ad sú ætlan vor verdi framgeng, ad þegar vér höfum drepid þá fedgana, þá munt þú og verda drepinn, eins og þeir, fyrir þá rádaætlan, sem þú hyggst í frammi ad hafa hér í höllinni; skaltu hér gjalda þess med höfdi þínu. En er vér höfum tekid ydur af lífi, þá munum vér slá eigum þínum, bædi þeim sem þú étt innanstokks og utanhúss, saman vid eigur Odysseifs; hvörki munum vér grid gefa sonum þínum né dætrum, og ekki unna konu þinni samastadar í Itökuborg. Svo mælti hann, en Atena vard vid þetta enn reidari í skapi, og átaldi Odysseif med þessum reidi ordum: Ekki er nú framar í þér, Odysseifur, sá stadfastur hugmódur, eda þad þrek, sem fordum var, þá er þú bardist stödugt vid Trójumenn í samfleytt níu ár sökum hinnar hvítörmudu, ættgöfugu Helenu; vóstu þá margan mann, medan sá hinn grimmi ófridur yfir stód, og med þínum rádum vard hin strætabreida borg Príamusar tekin. Hví vex þér nú í augu, ad beita þér móti bidlunum, þar sem þú err nú heim kominn í hús þitt og til eigna þinna? Láttu sjá, vinur, komdu híngad, og stattu hjá mér, og sjádu adfarir mínar, svo þú vitir, hvörsu Mentor Alkimusson kann ad launa þér veittar velgjördir, þegar þú ert staddur í óvina flokki. Svo mælti hún, en þó lét hún enn á hvorugan bóginn hníga sigurinn gjörsamlega, heldur reyndi hún enn afl og þrek Odysseifs og hans fræga sonar. En sjálf spratt hún upp, og settist í svöluliki á þak hinnar sótugu stofu.

Nú eggjudu þeir bidlana, þeir Agelás Damastorsson, Evrynomus, Amfimedon, Demotólemus, Písander Polyktorsson og hinn fródhugadi Polybus, því þessir voru lángt um fram adra bidla ad hreysti,

þá er enn stódu uppi og áttu líf sitt ad verja, en hinir voru fallnir fyrir tídum bogaskotum. Þá tók Agelás til máls, og vék ordum sínum til allra bidlauna: Vinir, senn mun afarmenni þetta hepta ofurafl sitt, því nú fór Mentor frá honum, og var þad eigi nema hégóma skrum, er hann mælti, og eru þeir nú einir eptir frammi vid dyrnar. Þess vegna skulum vér nú eigi skjóta hinum laungu spjótum ad þeim allir í senn, heldur skulu sex af ydur skjóta fyrst, ef svo mætti fara, ad Seifur veitti ydur þad happ, ad koma banasári á Odysseif og bera sigur frá bordi; því ekki þarf ad hrædast hina, þegar hann er fallinn. Svo mælti hann, og nú skutu þeir allir, eins og hann til tók, og neyttu afls. En Atena lét öll skot þeirra verda til ónýtis; því einn þeirra skaut í dyrustaf hinnar gólfföstu stofu, annar í hina velfeldu hurd, og einn sleigid eskividar spjót, sem hinn þridji skaut, leudti í veggnum. En er þeir Odysseifur höfdu undan stýrt spjótum bidlanna, þá tók hinn margþjádi, ágæti Odysseifur svo til máls: Nú mun eg, vinir, einnig verda ad mælast til, ad vér skjótum í flokk bidlanna, sem nú bæta því ofan á þad, sem þeir hafa ádur illt gert, ad þeir vilja drepa oss. Svo mælti hann, en þeir skutu allir hinum beittu spjótum, og gerdu hæfíng beint framm undan sér; þar drap Odysseifur Demotólemus, en Telemakkus Evryades, svínahirdirinn drap Elatus, og nautahirdirinn Písander, hnigu allir þessir til jardar og bitu tönnum í gras; hrukku bidlarnir þá innar í stofuna, en hinir hlupu til, og kipptu spjótunum úr þeim sem fallid höfdu. Því næst skutu bidlarnir hinum beittu spjótum af öllu afli, en Atena lét mörg af þeim fara til ónýtis, því einn bidlanna skaut í dyrustaf hins gólffasta húss,

annar í hina velfeldu hurd, og eirslegid eskividar spjót, sem hinn þridji skaut, lendti í veggnum. Telemakkus skeindist á úlnlidnum af spjóti Amfímedons, var þad skinnsprettur. Ktesippus skaut til Evmeusar laúngu spjóti, kom skotid fyrir ofan skjoldinn og í øxlina, var þad fyodusár, og rendi spjótid upp af, og lendti í gólfinu. Hinn fródhugadi, margrádugi Odysseifur og félagar hans skutu þá aptur beittum spjótum í flokk bidlanna, og feldi Odysseifur borgabrjótur Evrydamant, Telemakkus Evrymedon, svínahirdirinn Polybus; nautahirdirinn skaut til Ktesippusar, og kom í brínguna, taladi nautahirdir þá til hans, og var hródugur: Þú Polytersesson, sem hefir gaman af því ad spotta adra, vertu aldrei framar svá heimskíngi, ad fara med stórydi, heldur fel þú gudunum á vald, hvad verda vill, því þeir eru miklu máttugri en þú. Þessa sendíngu skaltu nú hafa fyrir nautsfótinn, sem þú gafst hinum godumlika Odysseifi ádan, þegar hann bad sér beina í høllinni. Svo mælti hirdir hinna bjúghyrndu nauta, en Odysseifur ód fram ad Damastorssyni, og rak hann í gegn med lángspjóti. Telemakkus lagdi spjóti í midjan kvid Leókrits Evenorssonar, svo ad gekk í gegn, en hann féll á grúfu, og skall í gólfid á flatt andlitid. Þá brá Atena upp hinum mannskæda Ægisskildi, þar sem hún sat uppi á þakinu, urdu þá hjørtu bidlanna óttaslegin; þeir ridluðust felmtrandi innan um stofuna, eins og nautahjardir, þegar hin ásjáda bróddfluga leggst á þær, og ærir þær á vorin, þegar dagana tekur ad lengja. En hinir voru eins og klóbjúgir, bjúgnefjadir haukar, sem koma af fjøllum ofan, og steypa sér nidur á smáfugla; fuglarnir þora þá ekki ad vera uppi undir skýunum og vilja þjóta nidur á lágleudid, en hauk-

arnir støkkva á þá og drepa þá, verdur þar eingi vørn fyrir og ekkert undankæri, en mennirnir hirda fuglana, sem nidurdetta, og þykir vænt um: allt eins ruddust þeir Odysseifur um í stofunni, og børdu bidlana á báda bóga, en þeir hljódudu afskaplega, þegar þeir fengu høfudhøggin, og allt gólfid flaut í blódi. Leódes hljóp þá til Odysseifs, tók um kné hans og bad um líf med svofeldum ordum: Eg fell þér til fóta, Odysseifur, álít mig miskunsamlega, og háf medaumkvun med mér! Eg hefi alls ekki talad eda gert til miska nokkurri ambátt hér í høllinni; eg hefi mikln fremur borid mig ad aptra bidlunum frá ad fremja nokkud þvílíkt, en þeir hafa eigi viljad gegna mér til þess, ad halda sér frá illverkunum, og hafa því hrept hrædileg afdrif fyrir sitt svívirdilega athæfi. En ef eg, sem ekkert hefi gert af mér, og ekki verid annad en brennifórnar spámadur hjá þeim, á ad leggjast í valinn, þá er lítilla launa framar ad vænta fyrir þad, sem vel er gert. Hinn rádagódi Odysseifur leit til hans med reidisvip, og mælti: Ef svo er, sem þú seglr, ad þú hefir verid brennifórnar spámadur hjá bidlunum, þá muntu víst opt hafa óskad þess í høllinni, ad mér mætti seint audid verda eptiræskttrar heimkomu, og ad þú nædir rádahag vid mína ástkæru konu, og ad þér yrdi med henni barna audid. Þess vegna skaltu ekki sleppa hjá hinum hardleikna dauda. Ad því mæltu þreif hann med sinni þreknu hendi sverd, er þar lá; því sverdi hafdi Agelás varpad frá sér til jardar, þá hann var veginn. Med þessu sverdi hjó hann á þveran háls honum, svo høfudid féll nidur á gólf, medan Leódes var ad tala. En saungmadurinn Femíus Terpíusson, sem bidlarnir høfdu kúgad til ad kveda hjá sér, komst undan hinum

dimma danda. Hann stód nálægt stigadyrunum, og héldt á hinni hljómfögru hörpu. Nú kom honum ræunnt í hug, hvört hann skyldi gánga út úr stofunni og setjast hjá enum veglega stalla hins mikla Seifs, húsvardar-gods: voru þeir Laertes og Odysseifur á þeim stalla vanir ad brenna mörg nautslærl: eda skyldi hann hlaupa til Odysseifs, taka um kné hans, og bidja sér lifs. En er hann hugsadi um þetta, leizt honum rádlegast, ad flýa á nádir Odysseifs Laertessonar; hann lagdi þá nidur hina hvelfdu hörpu milli skaptkersins og hins silf-urneglda hástóls, hljóp svo til Odysseifs, og tók um kné honum, bad sér grida, og taladi til hans skjótum ordum: Eg knéfell, og bid þig, Odysseifur, álít mig miskunsamlega, og haf medaumkvun med mér. Sjálfur muntu þess sárlega idrast sídar meir, ef þú drepur þann saungmann, sem kvedur gudum og mönnum til lofs, eins og eg gjöri. Eg hefi af aungvum manni lært, heldur hef-ir Gud blásid í brjóst mér ýmislegum ljódasaungvum. Þad er skyldt, ad eg sýngi fyrir þér, eins og fyrir ein-hvörjum gudanna. Lát þig því ekki fýsa til ad höggva höfud af mér. Telemakkus, þinn ástfólgni son, getur borid mér þad, ad eg kom ekki sjálfrádur í hús þitt til ad kveda yfir bordum, bidlunum til skemtunar, og ekki heldur af því ad eg þyrfti þess, heldur fóru þeir med mig híngad naudugan, því þeir voru fjölmennari og mér yfirsterkari. Svo mælti hann, en er hinn kapragódi Telemakkus heyrdi, hvad hann sagdi, taladi hann þeg-ar til födur síns, er hjá honum stód: Lát vera, högg eigi þenna mann, hann er saklaus. Vid skulum og gefa líf kallaranum Medoni, hann hefir ávallt verid mér unnandi hér í húsi voru, medan eg hefi verid sem barn. Mér þykir vest, ef Filetius eda svínahirdirinn hafa

drepið hann, eða hann hefir orðið á vegi fyrir þér, þegar berserksgángurinn var á þér í höllinni. Svo mælti hann, en hin vitri Medon heyrði, hvað hann sagði. Hann hafði kropið af hræðslu undir einn hástól, lagzt þar fyrir; og vafið utan um sig nýflegiinni nautshúð, til þess að forða sér dimmum dauða. Hann spratt nú skjótt upp undan stólnum, tók skjótlega utan af sér nautshúðina, hljóp framm, og tók um kné Telemakkusar, bað sér griða, og talaði til hans skjótum orðum: Hér em eg, vinur, gef mér grið, og bið föður þinn, að hann bani mér ekki með sínu bitra vopni, því hann gétur nú eigi stýrt afli sínu sökum þeirrar ofurreiði, er hann hefir á biðlunum, sem hafa eydt eigum hans innan hallar, og verið svo heimskir að virða þig einskis. Hinn ráðagóði Odysseifur sagði til hans brosandi: Vertu óhræddur, úr því þessi maður hefir géfið þér grið, og tekið þig á sitt vald; máttu nú sjálfur sanna, og vitna fyrir öðrum út í frá, hvörsu það er stórum betra, að gera gott, en íllt. Farið nú út úr stofunni og úr valnum, og framm í forgarðinn, og setjist þar, þú og hinn kvæðafróði saungmaður, meðan eg starfa hér í stofunni, það sem eg þarf. Svo mælti hann, en þeir gengu út úr stofunni, og settust hjá stalla hins mikla Seifs, lituðust þeir alla vega í kríng um sig, eins og bjyggist þeir við, að þeir mundu þá og þá verða drepnir.

Odysseifur hvarflaði nú augum um höll sína, og hugði að, ef nokkurr biðlanna væri enn lífs, og leyndist einhvörstaðar, til að forða sér dimmri feigð. En hann sá, hvar þeir lágu allir saman niðri í blóðinu á gólfinu, var það mikill sægur. Þeir voru eins og fiskar þeir, er fiskimenn hafa dregið í djúpriðnu neti utan af hin-

um grá́a sæ inn í vík nokkura við sjáfarströndina; liggja fiskarnir allir í kös í fjörunni, og sakna þá sjáfarvatnsins, en hinn lýsandi Helius dregur smámsaman úr þeim fjörið. Eins lágu biðlarnir í hrúgu, hvörr um þveran annan. Þá talaði hinn margráðugi Odysseifur til Telemakkusar: Far nú, Telemakkus, og kalla á fóstruna Evrykleu; eg vil tala nokkuð við hana, sem mér er hugleikið. Svo mælti hann, en Telemakkus gerði, sem faðir hans bauð; hann knúði hurðina, og mælti til fóstrunnar Evrykleu: Ris á fætur, gamla kona, sem hefir umsjón yfir ambáttum þeim, sem eru í húsum vorum! Kom híngað, faðir minn kallar á þig, og vill tala eitthvað við þig. Þannig mælti hann, en hún hugfesti orð hans, lauk upp dyrum hinna velsettu herbergja, og gekk framm, en Telemakkus fór á undan henni. Hún fann Odysseif í valnum, dreyra drifinn og blóðstorkinn; var hann líkur ljóni því, er kémur úr nautsskrokki, sem það hefir upp etið: öll bríngan þess og kjaptvikin beggja vegna löðra í blóði, og sjálft er það ógurlegt álits. Eins voru fætur og hendur Odysseifs atadar. En er hún sá valköstinn og óskopin af blóðinu, þá varð henni það fyrir, að hún hrein upp yfir sig af gleði, því hún sá, að hér var stórmikið að gert. En Odysseifur þaggaði niður í henni og hépti ákafa hennar, og talaði til hennar skjótum orðum: Gleðstu með sjálfri þér, gamla kona, stiltu þig, þú mátt ekki hrína upp yfir þig; það er synd, að hlakka yfir vegnum mönnum. Alög guðanna og illverk sjálfra þeirra hafa riðið þeim að fullu, því þeir virdtu eingan jarðneskan mann, sem til þeirra kom, hvört sem hann var meira háttar eða minna, og því hreptu þeir hræðileg afdrif illverka sinna. En tel nú upp fyrir mér þær

ambáttir innan hallar, sem óvirda mig, og eins hinar, sem eigi eru þar í sekar. Hin kæra fóstra Evryklea svaradi honum: Eg skal segja þér, sonur sæll, allt eins og er. Hér eru í høllinni 50 ambáttir, sem þú átt, høfum vid kennt þeim ýmsan verknad, bædi ad kemba ull og vinna þrælavinnu. Tólf af þeim hafa í frammi haft mikla ósvífni, og hvørki aktad mig, né heldur sjálfa Penelopu; en Telemakkus er nýlega ordinn vaxinn madur, og hefir módir hans aldrei leyft honum ad hafa nein umrád yfir ambáttunum. Heyrdu nú til, eg vil fara upp á hinn glæsilega loptsal, og gera konu þína vara vid; einhvørr gud hefir látid svefn renna í brjóst henni. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi henni og sagdi: Ekki skaltú vekja hana, en seg þú þeim ambáttum, sem ádur hafa hagad sér ósæmilega, ad koma híngad. Svo mælti hann, en hin gamla kona gekk út úr stofunni, til ad skila þessu til ambáttanna og segja þeim ad koma. Sídan kalladi Odysseifur til sín þá Telemakkus, nautahirdirinn og svínahirdirinn, og taladi til þeirra skjótum ordum: Gángist nú fyrir því, ad valurinn sé út borinn, og segid ambáttunum ad gera þad. Þar næst skulud þér láta þvo hina føgru hástóla og bordin úr vatni med gljúpum njardarvørtum. En þá er þér hafid látid koma øllu í lag innan hallar, þá skulud þér leida ambáttirnar út úr hinni gólfføstu stofu, og út í sundid milli hvolfklefans og hinnar traustu forgardsgyrdíngar, og høggva þær þar med lángeggjudum sverdum, þar til þér hafid tekid þær allar af lífi, og þær hafa gleymt þeim ástarhótum, er þær nutu af launmøkum sínum vid bidlana. Svo mælti hann; þá komu allar ambáttirnar í einum hnapp, þær báru sig hørmulega, og grétu føgrum tárum. Fyrst báru þær út lík-

in, og lögdu þau fram í stólpagáng hins velumgyrdta forgarðs, og flýttu sér svo, að þær ráku hvør á aðra, því sjálfur Odysseifur var uppi yfir þeim og rak eptir þeim, svo þær urdu að bera út líkin nauðugar viljugar. Síðan þvodu þær hina fögru hástóla og bordin úr vatni með gljúpum njarðarvöttum. Telemakkus, nautahirdirinn og svínahirdirinn mokudu gólf hins vandaða sals með rekum, en þær tóku bleytuna og báru út. En er þeir höfðu ræst allan salinn, leiddu þeir ambáttirnar út úr hinni gólfföstu stofu, og út í sundið milli hvolfklefans og hinnar traustu forgarðs gyrdingar, og kvíudu þær þar, svo þær áttu sér ekkert undanfæri. Hinn greindi Telemakkus tók þá svo til máls: Ekki mun eg láta ambáttir þessar fá svo heidarlegan dauðdaga, þar sem þær hafa lagt bædi sjálfum mér svívirdíngar til, og svo módur minni, og legið hjá biðlunum. Að því mæltu tók hann festarkadal af einu stafnbláu skipi, batt hann við stóra máttsúlu, og brá honum upp um hvolfklefann, lét síðan draga þær á lopt svo hátt, að eingi þeirra nádi fótum til jardar. Það fór fyrir þessum ambáttum, líkt og fer fyrir vængjalaungum þröstum eda slógardúfum, sem ætla í hreidur sitt, en lenda þá í einhvörri snörunni, sem lögð hefir verið í viðarrunninn, og mega svo gista þar, þó íllt þyki. Allteins héngu ambáttirnar uppi við kadalinn með höfudin í röð, en um hálsa þeim voru snörur, til þess þær skyldu deya aumkvunarlegum dauða; þær spriklu fótunum litla stund, en þau fótalæti voru ekki lengi. Því næst leiddu þeir Melantíus út eptir forstofunni, og út í forgarðinn, skáru af honum nasir og eyru með hörðu járni, slitu undan honum og köstudu fyrir hunda, og hjuggu af honum hendur og fætur í heiptarhug. Síð-

an þógu þeir sér um hendur og fætur, og gengu inn til Odysseifs; var nú þessu verki lokid. Þá mælti Odysseifur vid hina kæru fóstru, Evrykleu: Sæktu eld, gamla kona, og brennistein, sem er bót vid mörgum meinum, því eg ætla ad hreinsa húsid med brennisteini. En þú bid Penelopu ad koma híngad med þjónustumeyum sínum, og seg öllum ambáttunum ad koma ofan í stofu. Hin kæra fóstra Evrykléa svaradi honum: Rétt segir þú, sonur sæll; en, heyrdu til, eg ætla fyrst ad færa þér yfirhöfn og kyrtil til ad fara í; þú mátt ekki standa hér í höllinni med slíka tötra um þínar breidu herdar; þad væri til þess takanda. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi henni: Eg vil fyrst fá eldinn hér inn í höllina. Svo mælti hann, en hin kæra fóstra Evrykléa gerdi, sem hann baud, og sókti eld og brennistein; en Odysseifur hreinsadi stofuna, frammhúsid og forgardinn med brennisteini. Hin gamla kona gekk nú í gegnum hin fögru herbergi Odysseifs, til ad segja konu hans tídindin, og bidja hana ad koma. En ambáttirnar gengu út úr herbergi sínu, og héldu á blysum í höndum sér; þær flyktust kríngum Odysseif og fögnudu honum, kystu höfud hans og herdar af seginleiknum, og tóku í hendur hans; en sæt laungun til gráts og andvörpunar gagntók hann, því hann þekti þær allar grandt.

---

# Odysseifs drápa.

## Tuttugasta og þridja bók.

Innihald: Evrykléa segir Penelopu tídind-

in. Drottníngin fer til fundar við Odysseif, og er mjøg tortryggin. Odysseifur lætur heimafólkið slá dansleik í høllinni, svo ekki beri á því, sem gerzt hafi; tekur síðan laug, og gengur til tals við Penelopu, og þegar hann lýsir fyrir henni hjónarúmi þeirra, þá kannast hún við hann, og verða þar fagnafundir. Þau segja hvørt ødru raunir sínar, og þá þau eru gengin í sæng, segir Odysseifur frá øllum sínum hrakníngum. Um morguninn segir Odysseifur Penelopu að læsa sig inni, en fer sjálfur með Telemakkusi og hirðurunum út á landsbygð til Laertesar, føður síns.

---

Hin gamla kona gekk fagnandi upp á loptsalinn, til að segja húsmóður sinni, að hennar kjæri maður væri heim kominn. Kné hennar iðuðu og fæturnir tifuðu óðar, en vant var. Hún gekk að høfðalagi drottníngar, og mælti til hennar: Vakna þú, Penelopa, dóttir góð, svo þú sjáir með eigin augum, það sem þú hefir eptir þráð alla daga. Odysseifur er kominn, og heim til sín, þó seint væri. Hann hefir drepið hina vøsku biðla, sem gerðu óspektir í húsi hans, átu upp eigurnar, og misbuðu syni hans. Hin vitra Penelopa svaraði henni: kæra fóstra, guðirnir hafa gert þig brjálaða; þeir geta gert jafnvel hinn vitrasta mann óvitran, og gefið grunnhygnum manni hyggindi: eins hafa þeir brjálað vit þitt, þó þú áður værir heilvita. Hví gabbar þú mig með þessari søgu þinni, sem fjærri er øllum sanni? hjarta mitt er nógu harmþrúngið samt. Hví vekur þú mig af hinum sæta svefni, sem nýlega seig á

augu mér og héldt saman augnabrán mínum? Eg hefi aldrei sofid svo væran, sídan Odysseifur fór úr landi, til ad vitja ólánsborgarinnar, Ilusborgar, sem eg aldrei má nefna. Far nú ofan, og gakk aptur til herbergis þíns. Ef einhver önnur af ambáttum þeim, sem eg á, hefdi komid med þessar fréttir og vakid mig af svefni, þá skylda eg hafa rekid hana þegar med hardri hendi aptur í herbergi sitt; en þú nýtur þess, ad þú ert gömul. Hin kæra fóstra Evrykleа svaradi henni: ekki gabba eg þig, dóttir gód; þad er satt, sem eg segi, ad Odysseifur er kominn í land, og heim til sín; hann er gestur sá, sem allir óvirdtu í höllinni. Telemakkus vissi fyrir laungu, ad hann var innan hallar, en hann leyndi kænlega fyrirætlun födur síns, svo hann mætti hefna þess ofríkis, er hinir ofstopafullu menn hafa í frammi haft. Svo mælti hún, en Penelopa vard glöd, stökk ofan úr sænginni, umfadmadi hina gömlu konu, og feldi tár af augum; sídan taladi hún til hennar skjótum ordum: æ, seg mér, kæra fóstra, ef þad er satt, sem þú segir, ad hann sé heimkominn, hvörsu mátti hann þá leggja hendur á hina ósvífnu bidla einn síns lids, þar sem þeir eru ávallt vanir ad vera sjölmennir innan hallar. Hin kæra fóstra Evrykleа svaradi henni: eg sá ekkert, og frétti ekkert, en heyrdi einúngis andvörpin, þegar verid var ad vega ad þeim, því vid sátum innst inni í hinum traustsmídudu herbergjum kvídafullar, en dyrnar hardlæstar; fyrr en Telemakkus sonur þinn, kalladi til mín úr stofunni, því fadir hans hefdi sendt hann eptir mér, — þá fann eg Odysseif, þar sem hann stód í valnum, en bidlarnir lágu í kríngum hann á hinu harda gólfi, hvörr um annan þveran; þér hefdi ordid kátt í hug, ef þú hefdir séd þad. Nú

liggja þeir allir í einni kös í forgarðs dyrunum, en Odysseifur hefi kveykt mikinn eld, og er nú að hreinsa hús sitt með brennisteini, en sendi mig híngað til að kalla á þig. Kom þú nú, svo hjarta ykkar beggja nái að gleðjast eptir það hið mikla mótlæti, sem þið hafið þolað. Nú er það loksins komið á daginn, sem þú hefir lengi eptir þráð, hann er lífs heimkominn til heimilis síns, og hefir fundið þig heima og son sinn í höllinni; og biðlana, sem fóru smánarlega með hann, á þeim öllum hefir hann hefnt sín í húsi sínu. Hin vitra Penelopa svaraði henni: kæra fóstra, hrósaðu en ekki svo mjög happi af feginleiknum. Þú veizt, hve mjög við öll hér í höllinni mundum fagna heimkomu hans, einkanlega eg og sonur okkar beggja. En saga þessi, er þú segir frá, mun eigi sönn vera; heldur mun einhverr guðanna hafa banað hinum vösku biðlum, hefir honum þókt nóg um þann sárbeitta ofurgáng og hin illu verk, er þeir höfðu í frammi. Því þeir virðtu eingan jarðneskan mann, sem til þeirra kom, hvört sem hann var meira háttar eða minna, og því hreptu þeir ill afdrif sökum illverka sinna. En Odysseifur mun mist hafa heimkomu sinnar fjarri Akkealandi, og mun sjálfur undir lok liðinn. Hin kæra fóstra Evrykleа svaraði henni: Enn að slíkt skuli þér af vörum líða, dóttir góð! þú segir, að maður þinn muni aldrei heim koma, og þó sat hann hér inni við eldstóna; ávallt er hugur þinn tortrygginn. Heyrðu nú til, eg skal segja þér annað augljóst merki, það er örið, sem hann ber eptir sár það, er göltur nokkurr veitti honum eitt sinn með hvítri tönn sinni; eg varð þess vör, þá eg gerði honum fótlaug, og vildi gera þig vara við, en hann var svo séður, að hann greip höndum fyrir munn mér, og leyfði mér ekki

að segja neitt. Kom þú nú, en eg set mig sjálfa í veð, ef eg gabba þig, að þá skaltu mega lífláta mig hinum versta dauddaga. Hin vitra Penelopa svaraði henni: kæra fóstra, bágt mun þér veita, þó þú sért margfróð, að komast að ráðstøfun hinna eylífu guða. Førum nú samt ofan til sonar míns; eg vil sjá biðlana, sem drepnir eru, og þann, sem á þeim hefir unnið.

Að því mæltu gekk hún ofan úr loptsalnum, og var mjøg hugsandi um það, hvort hún skyldi spyrja sinn kæra mann í einrúmi, eða gánga til hans, kyssa høfuð hans og taka í hendur honum. En er hún var gengin inn, og stígin yfir steinþrøskuldinn, settist hún gagnvart Odysseifi, í eldsbirtunni við vegginn annarsvegar; en hann sat við hina háfu súlu, og horfði niður fyrir sig, og beið þess, að sín skøruglega kona yrpi orði á sig, þá hún liti sig augum. En hún sat lengi, og mælti ekki orð, því hennar hjarta var fángið af undran. Þó hún øðru hvørju rendi til hans augunum, og liti í andlit honum, þá kannaðist hún ekki við hann aðra stundina, af því hann var klæddur vondum flíkum. Þá ávítaði Telemakkus hana, tók til orða og mælti: Móðir mín, þú ógæfusama móðir, sem ert svo torsveig í skapi! Hví firrist þú svo føður minn? Hví sezt þú eigi hjá honum, tekur hann orðum og spyr hann? Ekki mundi ønnur kona með slíkum støðugleik firrast mann sinn, ef hann kæmi eptir afstaðnar margar þrautir heim til hennar í føðurland sitt á tuttugasta ári; en þitt hjarta er ávallt fastara fyrir, en steininn. Hin vitra Penelopa svaraði honum: Hjartað í brjósti mér er utan við sig af undrun, sonur minn. Eg get ekki yrðt orði á hann eða spurt hann, og ekki litið upp á hann. En ef það er satt, að þetta sé Odysseifur, og sé heim

kominn í hús sitt, þá munum við eflaust bæði tvø betur kannast hvørt við annað, því við høfum þar jarteiknir okkar í milli, sem við vitum bæði, en aðrir vita ekki af. Svo mælti hún; þá brosti hinn þolgóði, ágæti Odysseifur, og talaði þegar til Telemakkusar skjótum orð: um: Telemakkus, lofa þú móður þinni að freista mín hér í høllinni; hún mun senn bera keusl á mig betur; en nú, af því eg er óhreinn og í vondum slíkum, þá fyrirlítur hún mig fyrir þá skuld, og vill eigi viðkannast, að eg sé maðurinn sinn. En nú skulum við taka ráð okkur saman, hvørsu þetta mál megi sem best: an enda taka. Því sá maður, sem ekki á kost á því fleiri liðveizlumønnum, ef hann vegur víg innanlands, og þó ekki verði hann nema eins manns bani, þá fer hann útlægur frá tengdamønnum sínum og føðurlandi. Nú høfum við fellt mikja stoð undan ríkinu, þar sem við høfum að velli lagt þá sveina, sem lánggofgastir voru á Iþøku; vil eg því biðja þig að hugleiða þetta mál. Hinn greindi Telemakkus svaraði honum, og sagði: þar muntu sjálfur best fyrir sjá, faðir kær; því það er almæli, að þínar tilløgur séu hinar bestu, og mun einginn dauðlegur maður þurfa við þig að keppa þar í. Hinn ráðvitri Odysseifur svaraði honum og sagði: Eg skal þá segja þér, hvað mér þykir ráðlegast. Fyrst skuluð þér lauga yður, og fara í kyrtla yðar, og segið ambáttunum í høllinni að taka klæði sín. Þá skal hinn andríki saungmaður taka í hønd sér hina hljómføgru hørpu, og leika á hana fyrir okkur skemtilegan dansleik, svo að þeir, sem til heyra úti fyrir, eða gánga um strætið, eða búa hér í grend, hugsi, að hér sé drukkið brúðkaup inni; geri eg það til þess, að fregnin um biðladrápið berist eigi fyrr út um borgina, en vér

erum komnir út á vorn trjávaxna akur. Þar skulum vid hugleida hvørr med ødrum, hvada heill hinn Olympiski Seifur muni vilja veita okkur. Svo mælti hann, en þeir gegndu honum, og gerdu, sem hann baud. Fyrst laugudu þeir sig, og fóru svo í kyrtla sína; sídan bjuggust ambáttirnar; en hinn andríki saungmadur tók hina hljómføgru horpu, og vakti hjá þeim laungun eptir sætum saung og fallegum dansleik. Tók nú undir í allri høllinni af fótatøkunum, þegar karlmennirnir og hinar fagurbeltudu konur léku sér. Einhvørr, sem úti stód á hleri fyrir utan høllina, tók þá svo til orda: Nú hefir víst einhvørr geingid ad eiga hina bidilsælu drottníngu; hin hardgedjada kona, hún bar þá ekki þrek til ad vardveita hid mikla hús eiginmanns síns alsendis, þar til hann kæmi sjálfur heim. Svo tók einhvørr til orda, því menn vissu ekki, hvad gerzt hafdi.

Matseljan Evrynoma laugadi hinn hjartaprúda Odysseif í herbergi sínu, og smurdi hann med vidsmjøri, lagdi sídan yfir hann fagra skikkju og kyrtil. Atena sveip høfud hans med forkunnar fegurd, gerdi hann hærra á velli ad sjá og þrekknara, og lét hrynja þykkva lokka nidur af høfdi hans, líka sverdliljn blómi. Eins og hugvitsmadur nokkur, þeim er Hefestus og Pallas Atena hefir kent allskonar hagleik, gullbýr silfur, og smídar fagra gripi: eins brá Atena fegurd yfir høfud og herdar Odysseifs; var hann í sjónlíkur hinum ódaudlegu gudum, þegar hann sté upp úr lauginni. Sídan settist hann aptur á þann stól, er hann hafdi ádur á setid, gagnvart konu sinni, og mælti til hennar: Þú hin undarlega kona, upphiminsbúarnir hafa gert þig miklu hardbrjóstadri, en nokkura konu adra. Ekki mundi ønnur kona med slíkum stødugleik firrast mann sinn, ef hann kæmi á tuttugasta ári heim

til heimar í födurland sitt, eptir afstadnar margar þrautir. En, heyrdu, fóstra, bú þú upp rúm handa mér, eg vil gánga til hvílu; því kona þessi hefir sannarlega járnhjarta innanbrjósts. Hin vitra Penelopa svaradi honum: þú hinn undarlegi madur, þetta kemur ekki til fyrir mér af nokkurskonar mikillæti eda fyrirlitníng fyrir þér, eda af kynlegleik; því eg man vel, hvörsu þú varst í hátt, þegar þú fórst á árlaungu skipi leidángurinn frá Itøku. En — heyrdu, Evryklea, bú þú upp handa honum rúmid hid góda fyrir framan þad gólffasta svefnherbergi, sem hann sjálfur smídadi; setjid hid prýdilega rúm úr þángad, og látid þar í sængurklædi, feldi, rúmskikkjur og glæsilegar glitábreidur. Svo mælti hún til ad freista manns síns; en Odysseifi þókti þúngt um, og mælti til sinnar tryggvu konu: þad ord, sem þú þar mælir, kona, tekur mig mjøg sárt. Hvørr hefir gert mér þad, ad færa rúmid á annan stad, en þad átti ad vera? Ekki ætladi eg, ad þad mundi verda allaudveldt fyrir nekkurn mann, enn þótt hagsýnn væri, nema einhvørr af gudunum kæmi sjálfur til, og vildi med almætti sínu færa þad á annan stad; en eingum mennskum manni, enn þótt væri í broddi lífs síns, mundi audgert ad þoka því úr skordum: því á þessu hinu hagsmídada rúmi eru gløgg einkenni. Eg hefi sjálfur smídad þad, og eingi madur annar. Inni í hallargardinum vóx lánglaufgad vidsmjørsvidartré, þad tré var fullvaxid og stód í blóma, og digurt, sem máttsúla. Kríngum þetta tré lagda eg grundvøll til svefnherbergis, og hlód þad upp af steinaløgum, þar til er fullgert var, þakta svo yfir vandlega, lét þar sídan fyrir samskeyttar hurdir, sem vel voru samanfeldar. Ad því búnu hjó eg limid af hinu lánglaufgada vidsmjørstré,

og sueid bolinn frá rótinni, sídan telgda eg stofninn alla vega med bitjárni vandlega og haglega, og gerdi beinan eptir mælibrædi, bjó eg þar af rúmfótinn og renda hann allan med renuibor, hafdi eg þenna stofn fyrir undirstødu ad rúminu, og telgda eg svo rúmid sjálft, þar til er lokid var, og bjó þad lystilega med gulli, silfri og filsbeini, sídan reyrda eg rúmid saman med ól af nautsskinni, sem litud var í føgrum purpura. Þannig lýsi eg fyrir þér þessum einkennum. Nú veit eg eigi, kona, hvørt rúmid stendur enn kyrt, þar sem eg lét þad, eda hefir nokkurr madur af nýúngu høggvid undan stofn vidsmjørsvidar trésins, og fært rúmid á annan stad. Svo mælti hann; en þá urdu hennar kné magnþrota, og hjartad komst vid, þá er hún kannadist vid þær jarteiknir, er Odysseifur lýsti svo gløgglega fyrir henni. Hún hljóp grátandi í fáng honum, og lagdi hendur sínar um háls Odysseifi, kysti høfud hans og mælti: reidst mér eigi Odysseifur, þar sem þú ert allra manna best viti borinn í hvívetna. Gudirnir løgdu á okkur þad mótlæti, ad þeir unnu okkur ekki ad njóta samvista á besta aldri okkar, og ná svo ellíþøgum. Reidst mér eigi nú, og lát þér eigi fyrir þykja, þó eg tækja þér ekki í fyrstunni, þá eg sá þig, eins blidlega, og nú geri eg. Því eg hefi ávallt borid kvídbóga fyrir því innanbrjósts, ad einhvørr, sem híngad kæmi, mundi gabba mig med frásøgnum sínum; því margur er madurinn vidsjáll. Ekki mundi Helena hin Argiska, dóttir Seifs, hafa bundid ástir og samlag vid útlendan mann, ef hún hefdi vitad þad fyrir, ad hinir herkænu synir Akkea mundu flytja hana heim aptur í fødurland hennar; einhvørr gud hefir ordid ad æsa hana til þess ad fremja þetta óhæfuverk, og ekki hefir hún

fyrir fram leidt í huga sér þau hin hryggilegu afdrif illverka sinna, sem urdu hin fyrsta orsök til vorra harma. En med því þú hefir nú lýst gløggum einkennum á rúmi okkar, sem einginn madur hefir augum litid, utan vid ein, þú og eg, og herbergismeyan Aktoris, er fadir minn gaf mér, þá eg fór híngad, og sem gætti dyranna á okkar traust-smídada svefnherbergi, med þessu móti þá hefir þú fært mér heim allan sann, þó eg ádur hafi verid mjøg treg ad trúa. Svo mælti hún, og vakti vid þetta enn meiri sorgarlaungun upp hjá honum; hann héldt um sína hugþekku, trygglundudu konu, og grét. En hún vard eins fegin manni sínum, eins og skipbrotsmenn á sundi verda fegnir ad sjá landid, þegar Posídon hefir brotid þeirra ramgjørva skip á hafi úti, eptir ad þad hefir hrakizt í stormi og stórsjó; ad sønnu géta fáir af þeim bjargad sér á sundi til lands, og eru þá allir storknir af sjáfarseltunni, en þessir fáu stíga fegnir fótum á land, þegar þeir eru komnir úr háskanum. Eins var henni þad fagnadarsýn ad líta á mann sinn, og slepti ekki sínum hvítu ørmum af hálsi honum. Og þarna hefdu þau verid ad gráta, þar til hin rósfíngradra Morgungydja hefdi í ljós komid, ef hin bláeyga gydja Atena hefdi ekki haft annad rád med høndum: hún héldt hinni laungu nótt á vesturloptinu, en dvaldi þar á móti Morgungydjuna, Gullinstólu, hjá Jardarstraumnum, og leyfdi henni ekki ad beita hinum fráu hestum fyrir vagn sinn, folunum Lampusi og Faetoni, sem draga kerru Morgungydjunnar og færa mønnum dagsljósid. Þá mælti hinn margrádugi Odysseifur vid konu sína: Ekki em eg enn til enda kominn allra þrauta minna, kona, þar sem eg á enn fyrir høndum eina

þraut ómælilega, er sú þraut mikil og torveld, og verd eg þá þraut ad vinna ad fullu. Þessu spádi mér vofa Tíresíasar, þann dag er eg steig nidur í Hadesar heim, til ad leita fréttar um heimkomu félaga minna og sjálfs míns. Kom nú, kona, látum okkur gánga til rekkju, svo vid fáum ad njóta hvíldar med værum svefni. Hin vitra Penelopa svaradi honum: rekkja skal ad vísu vera þér til reidu, þegar er þér leikur í mun ad hvílast, fyrst gudirnir létu þér audnast ad koma til þíns velbygda húss og heim til fødurjardar þinnar. En fyrst gud skaut því þér í brjóst, ad minnast á þraut þessa, þá seg mér, hvør hún er; eg mun þó, vonar mig, seinna fá ad vita, hvør hún er, og er þá eins gott ad vita hana nú þegar. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi henni og sagdi: Hvad hugsardu, kona! Hví leggur þú svo fast ad mér, ad eg skuli segja frá þessu? Eg skal þá segja þér þad, og eingu af leyna, og mun þó hugur þinn lítt gledjast, því eg gledst ekki sjálfur þar af. En þad er ad segja af þraut þessari, ad hann baud mér ad ferdast um mørg bygdarløg manna, skyldi eg hafa veltelgda ár í hendi mér, og fara þar til er eg kæmi til þeirra manna, er eigi þekkja sjó, og eigi eta mat salti blandinn, og kenna eigi hlýrrodin skip eda tiltelgdar árar, sem eru vængir skipanna. Hann sagdi mér eitt augljóst merki, sem eg nú skal segja þér. Hann sagdi, ad þegar mér mætti einhvørr ferdamadur, sem segdi mig reida araspilli (kornskóflu) um øxl mér, þá skyldi eg stínga árinni í jørd nidur, færa svo fridar fórnir hinum volduga Posídoni, hrút, gridúng og gradan svíngølt, halda sídan heim aptur, og efna heiløg hundradsblót øllum ódaudlegum godum, þeim er byggja vídan himin, hvørju eptir tign sinni. En sjálfum mér mun ad hendi koma

einhvör hinn hægasti dauði upp af hafi, og vinna á mér í góðri elli og ellimóðum, en landsfólkið í kríngum mig mun lifa sælu lífi. Allt þetta kvað hann mundu fram við mig koma. Hin vitra Penelopa svaraði honum: Ef guðirnir láta þér auðnast að ná góðri elli, þá máttu eiga von á því, að þú komist einhvörntíma úr raunum þínum. Þannig töluðust þau við um þetta.

Ámeðan bjuggu þær Evrynoma og fóstran upp rekkju með mjúkum sængurklæðum, og brunnu hjá þeim logandi blys ámeðan. Þær flýttu sér að búa þá fögru rekkju, og að því búnu gekk hin aldraða kona aptur til herbergis síns, og fór að hátta. En herbergismærin Evrynoma fylgdi hjónunum til sængur, og héldt á blysi í höndum sér; en er hún hafði fylgt þeim inn í svefnherbergið, gekk hún fram aptur; en þau gengu fagnandi þángað, sem hin forna rekkja þeirra stóð. Þeir Telemakkus og nautahirðirinn og svínahirðirinn létu nú af dansleiknum, og sögðu konunum einnig að hætta, gengu síðan til rekkna sinna í hinum skuggafullu herbergjum. En er hjónin höfðu fagnað hvört öðru með ástar atlotum, skemtu þau sér með viðræðum, og sögðu hvört öðru sögur. Hin ágæta kona sagði frá þeim raunum, sem hún hafði haft í höllinni af því, að horfa uppá hinn skaðvæna biðlasæg, sem fyrir hennar skuld slátruðu miklum fénaði, nautum og feitu sauðfé; hún gat og um, að miklu víni hafði ausið verið af tunnunum. En hinn seifborni Odysseifur sagði frá öllum þeim raunum, sem hann hafði verið öðrum mönnum valdur að, svo og þeim, er hann sjálfur hafði í komizt og orðið að þola; þókti henni gaman að hlýða á, og ekki kom svefn á augu hennar, fyrr en hann hafði sagt alla söguna. Tók hann þar til, er hann vann

fyrst sigur yfir Kikonum, og kom þar eptir til hins frjóssama Lótofagalands. Hann sagdi frá því, er Kyklópurinn gerdi, og hvørsu hann sjálfur hefndi sinna hraustu félaga, er risinn hafdi etid án allrar vægdar. Þá sagdi hann frá, hvørsu hann kom til Eólusar, sem tók vel vid honum og greiddi fyr hans; en honum átti enn ekki ad audnast ad komast heim í sitt kæra fødurland, því stormbylur hreif hann aptur og rak hann út á hid fiskisæla haf vid þúngar mannraunir. Þá sagdi hann frá, hvørsu hann kom til Telepýlusborgar í Lestrýgóna landi, og hvørsu þeir brutu skip hans og drápu hina brynhosudu félaga hans. Hann sagdi og frá vélrædum Kirku og fjølkingi, og hvørsu hann fór á margþóptudu skipi nidur í hinn dimma Hadesar heim, til ad leita frétta hjá vofu hins Tebiska Tíresíasar, sá hann þar alla félaga sína, og módur sína, sem hafdi alid hann og upp fædt í barnæsku. Enn sagdi hann frá því, er hann heyrdi saung hinna snjallrómudu Sírena, og hvørsu hann kom til hinna reikandi hamra, og hinnar ógurlegu Karybdis og Skyllu, sem aungvir menn høfdu nokkurn sinni hjá sloppid heilu og høldnu. Þá sagdi hann frá, hvørsu félagar hans drápu naut Helíusar, og hvørsu hinn háþrumandi Seifur laust hans ørskreida skip med rjúkanda reidarslagi; létust þá hinir vøsku félagar hans allir í einu, en sjálfur komst hann undan hinum skjædu banagydjum. Hann sagdi og frá, hvørsu hann kom til eyarinnar Ogygíu og landvættarinnar Kalypsóar; hún héldt honum hjá sér í hellisfylsknum sínum, og vildi, ad hann yrdi madurinn sinn, héldt hún hann á sínum kosti, og hét ad gera hann ódaudlegan og ellivana alla daga, og þó gat hún aldrei ad heldur talid honum það í hug. Þá sagdi hann frá, hvørsu hann

kom til Feaka, eptir afstadnar margar þrautir; høfdu þeir hann í miklum kærleikum og virdíngu, eins og hefdi hann verid einhvørr godanna, gáfu honum gnótt eirs og gulls og klæda, og fluttu hann á skipi heim í fødurland hans. Þetta ord mælti hann sídast, þegar sætur svefn rann í brjóst honum, sá er gerdi limu hans lémagna og eyddi sorgum hugarins. Hin bláeyga gydja Atena hafdi nú annad rád med høndum: þegar hún hugsadi, ad Odysseifur hefdi notid fulls svefns og hvíldar hjá konu sinni, þá sendi hún þegar hina árbornu Gullinstólu upp af Jardarstraumnum, til þess ad færa mønnunum dagsbirtuna. Reis Odysseifur þá upp úr hinni mjúku rekkju sinni, og tók svo til orda vid konu sína: Híngad til hefir hvørttveggja okkar, kona, margvíslegum raunum sætt, svo vid erum fullsødd af: þú af því, ad þreya grátandi heimkomu mína, sem þér hefir aflad margs hugarángurs; en mér hefir Seifur og hinir adrir gudir med ýmsu andstreymi hamlad frá því ad komast heim til føđurjardar minnar, og hefi eg þó verid þángad allfús. En nú med því vid erum bædi komin í þá rekkju, er vid høfum mjøg þreyd eptir, þá skaltu gæta þeirra fjármuna, sem eg á hér innanhallar; en um fénad þann, er hinir ofirgángssømu bidlar hafa eydt fyrir mér, þá mun eg sjálfur ræna mørgu fé í skardid, og Akkear gefa mér þad, sem á vantar, uns øll fjárhús mín eru full ordin. Nú vil eg fara út á hinn trjávaxna akur, til ad sjá minn góda fødur, sem ber þúnga hjartasorg mín vegna. En eitt rád vil eg gefa þér, þó þú sért vitur kona: þegar er sól er runnin á lopt, mun sú fregn berast, ad eg hafi unnid á bidlunum í høllinni; þú skalt því gánga upp á lopt med þjónustumeyum þínum, og sitja þar, og líta ekki upp á

neinn eða aðspyrja nokkurn mann. Að því mæltu fór hann í hinn fagra herbúnað; hann hét á Telemakkus og nautahirðirinn og svínahirðirinn, og bað þá alla vopnast; gerðu þeir, sem hann bauð, og herklæddust. Þeir luku upp dyrunum og gengu út, fór Odysseifur fyrir; þá var ljóst orðið. Atena brá yfir þá myrkva, og leiddi þá skjótlega út af borginni.

# Odysseifs drápa.

## Tuttugasta og fjórða bók.

Inntak: Samtal Akkillefs og Agamemnons í Myrkheimi; Amfímedon segir Agamemnoni frá bidla drápinu. Odysseifur finnur Laertes, føður sinn. Evpites, faðir Antínóusar, reisir flokk, og fer móti Odysseifi til að hefna sonar síns, en fellur fyrir Laertesi. Atena støðvar upphlaupið, og kémur á friði.

Hinn kyllenski Hermes kallaði nú til sín vofur biðlanna, hann héldt á føgrum sprota úr gulli; með þeim sprota stíngur hann mønnum svefnþorn, þeim er hann vill, og með hinum sama vekur hann þá, er sofa. Með þessum sprota støkti hann vofunum á fætur og laðaði þær til sín, svo þær fóru á eptir honum gnauðandi, eins og leðurbløkur, sem fljúga ymjandi, hvør aptan í anuari, inn í afkima afarvíðs hellirs, þegar einhvør þeirra hefir losnað úr røðinni og hrapað ofan fyrir

bergid: eins fylgduſt allar vofurnar ad, ymjandi, en hinn gódi Hermes gekk á undan þeim, ofan dimma vegu. Þær geingu fram med Jardarſtrauminum og Levkas-hamri, og fram hjá Helíuſs-hlidum og Draumalandinu, og komu brádt á Gullrótar-eingid, þar er vofurnar búa, ſem eru ſvipir daudra manna. Þær fundu þar vofu Akkilleſs Peleifsſonar og Patróklusar, hins ágæta Antilokks, og Ajants, ſem var hinn fridaſti madur ſýnum og gjørvuglegaſtur allra Danáa, næſt enum ágæta Peleifsſyni; voru þeſsir kappar vanir ad ſafnaſt í kríng um Akkilles. Þá bar þar ad vofu Agamemnons Atreifsſonar, hún var ſorgbitin, og ſlykruſt í kríngum hana vofur allra þeirra manna, er fallid høfdu med honum og bedid bana í húſi Egiſtuſar. Vofa Peleifsſonar taladi þá ad fyrra bragdi vid Agamemnon: Vér hugſudum, Atreifsſon, ad hinn þrumuglađi Seifur mundi hafa þig kæran um fram adra ágætismenn, alla þína daga, ſøkum þeſs þú rédir fyrir mørgum afreksmønnum í Trójulandi, hvar vér Akkear áttum vid mannraunir ad etja. En þó átti þad einnig fyrir þér ad liggja, ad hin ſkadvæna ørlaganorn, er eingi ſá fær umflúid, er fædſt hefir, ſkyldi þér ſvo brátt ad hendi bera. Betur hefdi farid, ef þú hefdir fallid og bana bedid í landi Trójumanna vid ſlíkan heidur, eins og þú hafdir, þá þú hafdir herſtjórnina á hendi; því þá hefdi alþjód Akkea orpid haug eptir þig, og þú hefdir þá aflad ſyni þínum mikillar frægdar eptir þinn dag. En nú vard þad hlutfall þitt, ad þú ſkyldir deya hinum aumkvunarlegaſta dauddaga. Vofa Atreifsſonar ſvaradi honum: Sæll ertu þeſs, Peleifsſon, godumlíki Akkilles, ad þú féllſt vid Trójuborg, lángt í burtu frá Argíalandi; því hinir hrauſtuſtu ſynir Tró-

jumanna og Akkea féllu í kríng um þig, er þeir bördust til að ná líki þínu, en á medan lást þú, hinn stórvaxni madur, á stóru rúmsvædi í rykmokknum, og sinntir þá ekki riddaraskapnum. En vér bördumst allan lidilángan daginn, og hefdum ekki hætt bardaganum, ef Seifur hefdi ekki látid á koma það óvedur, að allir urdu frá að hverfa. Eptir það fluttum vér þig af vígvellinum, og til skipa, þógum líkið í volgu vatni og smurdum med smyrslum, og lögdum það á legubekk; úthéltu Danáar þar mörgum heitum tárum í kríng um þig, og rökudu hár sitt. En er módir þín spurdi þessi tídindi, kom hún upp úr sænum, ásamt med hinum ódaudlegu sjávargydjum, urdu þá svo mikil harmalæti á öllu hafinu, að furdu gegndi, setti þá svo mikinn geig að öllum Akkeum, að þeir hefdu sprottið upp og geingið á skip, ef einn madur hefdi ekki aptrað þeim; það var Nestor, sem fródur var í mörgum fornum dæmum, og þókt hafdi að undanförnu einhverr hinn tillagabesti. Hann var þeim velviljadur í huga, taladi til þeirra og mælti: Stödvið ydur, Argíar, flýið eigi, sveinar Akkea! Módir hans kemur hér upp af sænum, ásamt med hinum ódaudlegu sjávargydjum, og vill finna son sinn, sem dáinn er. Svo mælti hann, og stödvudu hinir hugmiklu Akkear þá flóttann. En dætur hins gamla sjávaröldúngs stódu umhverfis í kríng um þig, sárlega grátandi, og færdu þig í himnesk klædi. Allar níu saunggydjurnar súngu á víxl med fagri rödd, og hörmudu mjög, sást þá einginn af Akkeum ógrátandi, því hin rómsnjalla Saunggydja hóf sig þá svo hjartnæmilega. Vér grétum þig í seytján daga og nætur samfleytt, jafnt ódaudlegir gudir, sem daudlegir menn; en á átjánda degi brendum vér líkið, og slátrudum mörgum feitum

sandum og bjúghyrndum nautum umhverfis um bálid, og þar varstú brendur í klædum godanna, og í miklum smyrslum og sætu hunángi; en margir ágætismenn Akkea runnu vopnadir í kríng um bálid, þar er þú brannst, bædi fótgángandi menn og rídandi. En er eldsloginn hafdi upp unnid líkid, þá söfnudum vér árla morguns hinum hvítu beinum þínum, Akkilles, og hösdum þar vid óblandad vín og smyrsl. Módir þín fékk oss bydnu af gulli, kvad hún Dionysus hafa gefid sér bydnuna, en hinn vídfræga Hefestus búid hana til; í þeirri bydnu liggja hin hvítu bein þín, frægi Akkilles, og þar saman vid bein hins fallna Patróklufs Menetussonar, en sér í lagi eru bein Antilokkuss, þess er þú virdtir um fram adra félaga þína, eptir þad ad Patróklus var fallinn. Fórum vér þá, hinir frídu lidsmenn hinna herkænu Argía, og urpum mikinn haug og veglegan ad þessum mönnum á skaganum vid hid breida Hellusund, til þess ad þeir menn, sem nú eru uppi, svo og seinni tída menn, mætti sjá hauginn lángt utan af hafi. Því næst kom módir þín med fagrar sigurgjafir, er hún hafdi fengid hjá gudunum, og lagdi þær fram á samkomu Akkea, handa þeim er hraustastir voru. Þú hefir ad vísu verid vid staddur greptrun margra ágætismanna, svo sem þegar einhverr Konúngur hefir látizt, og úngir menn hafa búizt til leiks, til ad vinna þau sigurlaun, er vid lágu; en þá mundi þig hafa allan furdad; ef þú hefdir séd jafnfagrar sigurgjafir, og þær voru, sem hin silfurfætta Tetis lagdi fram vid útför þína; því gudirnir höfdu þig í stórmiklum kærleikum. Þannig hefir ekki nafn þitt undir lok lidid vid fráfall þitt, heldur mun gódur ordstír þinn ávallt lifa eptir þig, Akkilles, hjá öllum mönnum. En hvörn ávángur hefi eg af því, ad eg hefi bar-

ízt til þrautar, þar til ófriðurinn var á enda kljáður? því, þegar eg kom heim, varð mér að ráðstøfun Seifs hryggilegur bani búinn af Egistusi og hinni ógiptusamlegu konu minni. Þannig tøluðust þeir við um þetta.

Í þessu kom sendigudinn Argusbani til þeirra, hann hafði meðferðis vofur biðlanna, þeirra er fallið høfðu fyrir Odysseifi. Þeir Akkilles urðu báðir forviða, er þeir litu þær, og gengu móti þeim; þar þekkti vofa Agamemnons Atreifssonar hinn frœga Amfímedon Melaneifsson, því hann var gestfélagi hans og átti heima í Itøku. Vofa Atreifssonar talaði þá til hans að fyrra bragði: Hvað kemur til þess, Amfímedon, að þér eruð gengnir niður í hina døkkvu jørð, allir útvaldir menn og jafnaldrar? Yrði ekki auðveldlega kosið á jafnhraustu menn í nokkurri borg, þó um væri að velja. Æsti Posídon að yður skaðrœðis vinda og stórar øldur á sjóvegs ferð, og fyrirkom yður svo? Eða drápu óvinir yður einhverstaðar á landi, þegar þér rænduð nautum og fríðum sauðahjørðum, eða þá þeir børðust til að verja borg sína og konur? Seg mér það, er eg spyr, því eg er gestfélagi þinn. Mannstu ekki, þegar eg kom þángað í hús yðvart, til að eggja Odysseif að fara í leiðángurinn til Ilusborgar með hinum goðumlíka Menelási á hinum þóptusterku skipum? og þegar vér með áheitum høfðum fengið Odysseif borgabrjót til fararinnar, vorum vér í heilan mánuð að sigla yfir hið breiða haf. Vofa Amfímedons svaraði honum; Allt man eg það, er þú segir, seifborni konúngur, og skal eg segja þér satt og rétt frá øllu, hversu afstódst um þau illu afdrif, að vér skyldum bana hljóta. Vér báðum konu Odysseifs, þess er þá hafði lengi á burtu verið; en hún gerði

hvörki ad sýnja rádahagsins, þó henni væri hann mjög svo móti skapi, né heldur fékk þad af sér ad gánga ad honum, því hún ætladi oss bana og dimma feigd; heldur hugsadi hún medal annars upp þessa vél: hún setti upp mikinn vef, og óf smágjörva og ummálsmikla vod í herbergi sínu, sagdi sídan til vor: þér úngu menn, sem nú bidjid mín. þar ed Odysseifur er dáinn, bidid, þó ydur sé annt um ad ná rádahag vid mig, uns eg hefi lokid vid dúkinn, því mér er ekki um, ad vefurinn verdi mér ónýtur; þad á ad verda náklædi handa ödlíngnum Laertes, þegar hin skadvæna Banagydja, sem rædur fyrir daudanum, er manninn leggur flatan, hefir yfirbugad hann: því vera kann, ad konur Akkea hér í landi lái mér, ef hann liggur umbúdalaus, svo audugur madur. Svo mælti hún, en vér féllumst á þetta; óf hún svo hinn mikla vef á daginn, en rakti upp aptur á næturnar vid ljós. Þannig fékk hún leynt þessu í þrjú ár, svo Akkea grunadi ekki. En er hid fjórda ár gekk í gard, og ný misseri komu ad hendi, þá sagdi ein af þernum hennar frá, sú er vissi, hvörnig á öllu stód; komum vér þá ad henni, þar sem hún var ad rekja upp aptur hinn glæsilega vef. Þannig neyddist hún til ad ljúka vid vefnadinn, þó henni væri þad móti skapi. Nú sem hún hafdi ofid þenna hinn mikla dúk og þvegid hann, og lagt fram vodina til sýnis, þá var hún svo fögur, sem sól væri eda túngl. En rétt í þeim svifum leiddi einhvör ill vættur Odysseif heim, hvadan sem hann hefir svo ad komid; kom hann í land vid útskaga nokkurn á landsbygdinni, þar sem svínahirdirinn átti heima. Þángad kom og hinn ástkjæri sonur hins godumlíka Odysseifs sjóleidis frá hinni sendnu Pýlusborg. Þeir tóku nú saman rád sín ad fyrirkoma

bidlunum, og fóru til borgarinnar, fór Telemakkus fyrri, en Odysseifur sídar, og leiddi svínahirdirinn hann, var hann í vondum flíkum, og líkur aumlegum förukarli og gömlum manni; gat einginn af oss þekkt, ad þad væri hann, er svo bar óvörum ad, og ekki þekktu hann heldur þeir, sem eldri voru. Vér tókum nú til ad misbjóda honum med illyrdum og barsmídum, og bar hann fyrst leingi þolinmódlega, þó hann væri barinn og svívirdtur í herbergjum sínum. En er hugur Seifs Ægisskjalda tók til ad hreifa sér í honum, þá fór hann til med Telemakkusi, og tók hin fögru vopn, kom þeim upp í geymsluskálinn, og skaut fyrir lokunum. Því næst gerdi hann þad af slægvitsku sinni, ad hann bad konu sína ad leggja þá þraut fyrir oss óláusömu menn, ad draga boga hans og skjóta í gegnum axaraugun, átti þad ad vera upphaf ad vígunum; en einginn af oss gat upp dregid streng hins sterka boga, og var mikils á vant, ad vér fengjum þad leikid. En er hinn mikli bogi kom til Odysseifs, þá kölludum vér allir upp í einu hljódi, og bönnudum ad fá honum bogann, hvad mikid sem hann mælti um. En þá skarst Telemakkus í einn saman, og baud, ad honum skyldi fá bogann. Tók hinn þolgódi, ágæti Odysseifur þá bogann í hönd sér, og dró þrautarlaust, og skaut í gegnum axaraugun, steig sídan upp á þroskuldinn og lét drífa frá sér örvarnar, var hann þá vodalegur, þegar hann gaut í kring um sig augunum. Hann skaut Antínóus konúng, og hleypti því næst hinum skadvænu skeytum á hina bidlana, gerdi hann hæfing beint framm undan sér, en þeir féllu hvorr um annan þveran. Var þad audséd, ad einhvorr gudanna var þeim Odysseifi lidsinnandi, því þeir hjuggu þegar á báda bóga, eins og þeim baud vid ad horfa,

en hinir hljóðuðu aumkaplega, þegar þeir fengu höfuð-
höggin, og allt gólfið flaut í blóði. Á þenna hátt bið-
um vér bana, Agamemnon, og liggja líkamir vorir
enn óhirðtir í höll Odysseifs, því vinir vorir, sem heima
eru, vita enn ekkert af þessu, svo þeir geta ekki þvegið
dauðablóðið af sárum vorum, ekki lagt oss til og harm-
að yfir oss, sem þeir annars mundu gjört hafa: því
það er sá heiður sem veitist dauðum mönnum. Vofa
Atreifssonar svaraði honum aptur: Sæll ertú, Laert-
esson, margráðugi Odysseifur, er þú eignaðist þá konu,
er svo var mjög að kostum búin. Hvörsu prúðlynd
var hin góða Penelopa Ikaríusdóttir! Hvörsu trú-
lega mundi hún eptir Odysseifi, eiginmanni sínum!
Þess vegna mun mannkosta minníng hennar aldrei
deya, og hinir ódauðlegu guðir munu veita hinni vit-
ru Penelopu ækilegan orðstír hjá jarðneskum mönnum.
Ekki fórst henni, eins og Tyndarsdóttur, sú er framdi
það ódáðaverk, að hún drap eiginmann sinn, og mun
því verða hryllilegt yrkisefni medal eptirkomandi manna,
hefir hún og komið óorði á aðrar konur, enda þó góð-
ar konur kunni að vera. Þannig ræddust þeir við um
þetta, þar sem þeir stóðu í Hadesar heimi, í leynisylsn-
um jarðarinnar.

Þeir Odysseifur gengu nú ofan úr borginni, og
komu skjótt á akurlendi Laertesar, það var vel ræktað,
og hafði Laertes keypt landið sjálfur fyrrum, því hann
var hinn mesti starfsmaður; þar átti hann bæarhús,
og lágu húsakot allt umhverfis um bæinn. Hinir
ánauðugu þrælar hans, sem unnu þau verk, er hann
vildi gera láta, mötuðust, sátu og sváfu í þessum kot-
um; þar bjó og kona nokkur gömul frá Sikiley, hún
þjónaði hinum aldraða manni með mikilli virkt þar úti

á landsbygdinni, þá hann var ekki í borginni. Þegar Odysseifur var þar kominn, taladi hann til þrælanna og sonar síns: gángid nú inn í hinn velhúsada bæ, og takid af svínunum, það sem feitast er, og slátrid til bordhalds. En eg mun fara til fødur míns, og freista, hvørt hann þekkir mig, þá hann sér mig, eda hann ránkar ekki vid mér, af því eg hefi svo lángan tíma á burtu verid. Ad því mæltu fékk hann þeim her-búnad sinn, gengu þeir þá skjótlega heim á bæinn, en Odysseifur gekk út á hid frjófsama akurland, til ad freista fødur síns. Hann gekk ofan í hinn mikla gard, en fann þar ekki Dólius og eingan af þrælunum, og ekki heldur sonu hans; því þeir voru farnir ad tína saman þyrna til akurgirdíngar, en hinn gamli madur vísadi þeim leid. Odysseifur fann fødur sinn einmana í hinum ræktada aldingardi, var hann þar ad grafa í kríng um eitthvørt tré; hann var í óhreinum kyrtli, bættum og ljótum, hafdi ledurhosur á fótum, saumad-ar af nautsledri, til þess hann hrufladi sig ekki á fót-unum; vetlínga á høndum, vegna þyrnanna, en geit-skinns húfu á høfdi: hann var mjøg harmandi. En er hinn þolgódi, ágæti Odysseifur sá hann, hrumann af elli og harmþrúnginn í huga, þá nam hann stadar undir einu hávøxnu perutré, og úthelti tárum. Þá lék honum tvennt í hug, hvørt hann skyldi heldur fara og kyssa og umfadma fødur sinn, eda skyldi hann spyrja fyrst frétta og grenslast eptir sérhvørju. En er hann hugsadi þetta med sér, leizt honum best ad freista hans fyrst med skapraunar ordum. Med þessum huga gekk hinn ágæti Odysseifur til móts vid hann. Laertes laut þá nid-ur og gróf um tréd; þá gekk hans frægi sonur til hans og mælti: Ekki vantar þig kunnáttu, gamli madur, til

ad yrkja gardinn, og vel stundar þú hann, er hér eing: inn sá hlutur, ad umhirdíngu vanti; eingar plantanir, ekkert fíkjutré, víntré, vidsmjørstré, perutré, og eingi reitur í gardinum er vanhirdtur. En eitt vil eg segja þér, sem þú mátt ekki reidast af: þú ert illa stundadur sjálfur, þar sem þú bædi ert ørvasa af elli, og þar á ofan mjøg óþokkalegur og í ljótum flíkum. Ekki þarf þó hús: bóndi þinn ad vanhirda þig þess vegna, ad þú sért id: julaus; sér þad og ekki á vaxtarlagi þínu og stærd, ad þú sért þrælaættar, því þú ert líkur konúngbornum manni, þú ert líkur þeim manni, sem þveginn og mettur ætti ad fá mjúkt hvílurúm, því þad er gømlum mønnum eig: inlegt. Gjør nú svo vel, seg mér og inn med sannind: um, hvørjum manni ertu hádur til þjónustu? Hvørt á gard þann, er þú yrkir? Seg mér og satt frá, ad eg verda vísari, hvørt þad er satt, ad land þetta, sem eg er til kominn, sé Íþaka, eins og mér sagdi rétt ný: lega madur nokkurr, er eg hitti, þá eg kom híngad; var sá madur ekki mjøg vitur, er hann gat ekki af sér feng: id ad segja mér allt af létta, og hlýda á mál mitt, þegar eg héldt spurnum fyrir um einn gestfélaga minn, hvørt hann mundi enn lífs uppi vera, eda væri hann nú dáinn og kominn í Hadesar heim. Því þad skal eg segja þér fyrir satt, taktu nú eptir og hlýd á ord mín: Eg gisti eitt sinn mann nokkurn, er mig sótti heim, þá eg var í føDurlandi mínu; hefir einginn gestur enn komid í mitt hús frá útløndum, ad mér hafi kærari verid: hann kvadst vera ættadur frá Íþøku, og kvad fødur sinn vera Laertes Arkisiusson. Þenna mann leidda eg til herbergja minna, tók honum vel og veitti honum af allri virkt, því gnógt var til innanhúss: gaf eg honum sæmilegar gestgjafir: eg gaf honum sjø

vættir af smídudu gulli: eg gaf honum skaptker af alsilfri, flúrad, tólf einbrotnar yfirhafnir, eins marga dúka, eins margar fallegar skikkjur, og ad auk jafnmarga kyrtla: auk þessa gaf eg honum fjórar konur, fridar sýnum og vel ad sér í fallegum hannyrdum, og mátti hann sjálfur velja sér þær eptir vild sinni. Fadir hans svaradi honum aptur tárfellandi: Þad er satt, gestur, ad þú ert kominn í land þad, er þú spyr um; en hér ráda nú fyrir ofríkismenn og ofsstopar, og koma þær til lítils, hinar stórmiklu gjafir, er þú hefir látid af hendi rakna. Ef þú hefdir hitt hann á lífi í Ítøkulandi, þá hefdi hann goldid þér ad fullu med gjøfum og gódum gestbeina, og látid þig svo frá sér fara, því svo byrjar þeim ad gera, sem fyrst bindur vináttu vid annan. En seg mér nú og inn med sannindum: hvørsu mørg ár eru nú sídan, ad þú gistir hann, þenna ógæfusama gestfélaga þinn, minn vesæla son? — ávallt er mér eptirsjón ad honum! — Nú munu annadhvørt fiskar vera búnir ad eta hann upp einhvørstadar í hafi úti, fjarri vinum hans og fødurlandi, eda hann er ordinn dýrum og fuglum ad brád á landi. Ekki høfum vid foreldrar hans, sem ólum hann, nád ad hjúpa hann og gráta yfir honum; ekki hefir hans gjaffæla kona, hin vitra Penelopa, nád ad veita honum nábjargir, og harma mann sinn á børunum, eins og vera bar, því þad er sá heidur, sem veitist daudum mønnum. Seg mér og satt frá, ad eg verda vísari: hvørr ertu, og hvørra manna? hvar áttu heima og foreldrar þínir? hvar stendur hid ørskreida skip, er flutti þig híngad og hina ágætu félaga þína? eda komstu híngad sem farþeigi á skipi annara manna, sem settu þig hér á land, og fóru svo burt aptur? Hinn þolgódi Odysseifur svaradi honum: Eg skal

segja þér alla sögu, eins og hún er; eg er frá Alýbantsborg, og bý þar í ágætri höll, og em sonur Afídants Konúngs Polýpemons sonar, en nafn mitt er Eperítus. Einhvør vættur lét mig hrekjast afleidis frá Síkanalandi. svo eg kom híngad naudugur, og stendur skip mitt uppi hér úti á landsbygdinni, lángt frá borginni. En þetta er nú hid fimta ár, sídan hinn ógæfusami Odysseifur fór í burt þadan frá födurlandi minu. Víst var þad þó, ad þegar hann fór frá mér, þá komu honum heillavænlegir spáfuglar, sem flugu til hægri handar honum; vard eg gladur vid þad, og lét hann fara af stad, gladdist hann þá og sjálfur, og fór; vonudum vid bádir, ad fundum okkar mundi bera saman á sídan, og mundum vid þá skiptast gestgjøfum vid. Svo mælti hann, en þá sveif yfir Laertes dimmt harmaský: hann tók svarta moldina bádum høndum og jós yfir hærur sér, og andvarpadi ódt. Þá gekkst Odysseifi hugur vid; hann dróg síg ínøsum, af því honum var sárt í brjósti, þá hann leit upp á födur sinn; hljóp hann þá framm ad honum, umfadmadi hann og kysti, og tók svo til orda: Eg er sá hinn sami, fadir minn, sem þú spyr eptir, og em nú heim kominn í födurland mitt á tuttugasta ári. Lát nú af grátunum og hinum táruga trega. Eg skal segja þér nokkud í fréttum, en verd ad fara sem skjótast yfir: eg hefi drepid bidlana í höll minni, og hefnt hinnar sáru svívirdíngar og hinna illu verka. Laertes svaradi honum og sagdi: Ef þad er satt, ad þú sért Odysseifur og sonur minn, sem híngad sért kominn, þá seg mér nú einhvørja gløggva jarteikn, ad eg megi trúa. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: gættu fyrst ad þessu øri, sem eg ber eptir sár þad, er gøltur nokkur veitti mér med

hvítri tønn sinni, þá eg fór upp á Parnasus fjall. Þú og mín heidvirda módir sendud mig á fund Autolýk-usar módurfødur míns, til ad taka vid gjøfum heim, er hann hafdi lofad, og heitid ad gefa mér, þá hann kom híngad. Hevr nú til, eg skal telja upp fyrir þér tré þau, er þú gafst mér eitt sinn á hinum frjóffama akri; eg var þá barn og fylgdist med þér í gardinum, og bad þig um eitt og eitt tré; vid vorum á gángi innan um trén, og nefndir þú og til tókst hvørt tré fyrir sig. Þú gafst mér þrettán perutré, tíu apaldra, og fjórtán fíkjutré; þú tilnefndir og fimmtíu víngarda, sem þú hétst ad gefa mér, og voru allir misfrjófir, spretta þar allskonar vínber, þegar átstídir Seifs leggjast á med gróandann ofan ad. Þannig mælti hann, en kné Laertesar urdu magnþrota og hjartad vanmegna, þegar hann kannadist vid þær jarteiknir, er Odysseifur lýsti svo gløgglega; hann lagdi bádar hendur um sinn kæra son, og leid í ómegin, en hinn þolgódi, ágæti Odysseifur hélt honum í fángi sér. En er hann raknadi vid og kom aptur til sjálfs síns, þá tók hann aptur til orda og mælti: Fadir Seifur, sannlega eru gudirnir enn á hlnum háfa Olympi, fyrst þad er satt, ad bidlarnir hafa tekid gjøld fyrir hinn ofstopafulla yfirgáng. En nú ber eg stóran kvídboga fyrir því, ad allir Itøkumenn komi brádum híngad, og geri ordsendíngar hvervetna frá sér í borgir Kefallenumanna. Hinn rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: Vertú ókvídinn, lát þér eigi þetta ad áhyggju verda. Gaungum heldur heim á bæinn, sem hér er nálægt gardinum. Eg sendi Telemakkus þángad og nautahirdirinn og svínahirdirinn á undan mér, til þess ad búa sem skjótast til dagverdar. Ad því mæltu gengu þeir bádir til hinna

fagursettu húsakynna. En er þeir komu heim á bæinn, fundu þeir Telemakkus og nautahirdirinn og svínahirdirinn, voru þeir ad brytja nóg af kjöti og blanda hid skæra vín. Þjónustumærin hin Sikleyska laugadi nú hinn hugstóra Laertes í herbergi sínu, og smurdi hann med vidsmjöri, lagdi sídan yfir hann fagra yfirhöfn; þá gekk Atena til hans og styrkti limu þjódhöfdingjans, og gerdi hann meira vexti, en ádur, og þreknara á velli ad sjá. Sídan steig hann upp úr lauginni, en hans ástkæri sonur undradist, er hann sá, ad hann var ordinn líkur í sjón hinum ódaudlegu gudum. Hann taladi þá til hans skjótum ordum, og sagdi: Sannlega hefir einhvörr hinna eylífu guda gert þig, fadir, frídara sýnum og stærra á velli ad sjá. Hinn vitri Laertes svaradi honum: Fadir Seifur og Atena og Appollon, eg vildi óska, ad eg hefdi verid í gær, eins og eg var, þá eg var fyrirlidi Kefallenumanna, og tók hina ramgjörvu Neríkonsborg, á ströndinni á meginlandinu; ef eg hefdi þá verid eins, og stadid í herbúnadi til annarar handar þér í höllinni, og barizt vid bidlana, þá skylda eg hafa látid marga af þeim til jardar hníga í herbergjunum, og þá skyldi þér hafa ordid gladt innanbrjósts. Þannig ræddust þeir vid sín í milli. En er þeir Telemakkus höfdu lokid sýslu sinni og búid til matar, þá settust þeir hvörr ad ödrum á legubekkina og hástólana, tóku sídan til dagverdar. Þá kom þángad hinn aldradi madur, Dólíus, og med honum synir hans, þeir voru þreyttir af erfidi. Módir þeirra, hin gamla sikleyska kona, hafdi gengid fram og kallad á þá; hún ól þá upp, og stundadi hinn gamla mann med mikilli virkt, eptir þad ad aldur færdist yfir hann. Nú sem þeir litu Odysseif og báru kensl á

hann, numu þeir staðar í herberginu og undruðust, en Odysseifur talaði til þeirra blíðlega, og mælti: Seztu að dagverði, gamli maður! og látið með öllu af að undrast. Vér höfum lengi dvalið hér í herberginu, og ekki tekið til matar, þó oss hafi lángað til, því vér höfum alltaf beðið eptir ykkur. Svo mælti hann; þá gekk Dólíus til hans, og breiddi út báðar hendurnar; hann tók í hönd Odysseifs, og kysti á úlnliðinn, talaði til hans skjótum orðum og sagði: mjög hefir oss lángað eptir heimkomu þinni, vinur, og kom oss það óvænt, að þú skyldir nú vera kominn; en með því guðirnir sjálfir hafa leidt þig í land aptur, þá kom þú heill og sæll, og veiti guðirnir þér hamíngju! Seg mér nú með sannindum, svo eg viti með vissu, hvört hin vitra Penelopa veit sönnur á, á þú sért híngað heim kominn, eða eigum vér að géra henni orðsendíngu. Hinn ráðagóði Odysseifur svaraði honum og sagði: gamli maður, hún er búin að fá að vita það; þú þarft ekki að sýsla um þetta. Svo mælti hann, en Dólíus settist á einn fagran stól. Á líkan hátt þyrptust synir Dólíusar í kríng um Odysseif, og fögnuðu honum, báðu hann velkominn og tóku í hendur honum; settust síðan hvörr að öðrum hjá föður sínum Dólíusi. Þannig sýsluðu þeir um dagverðinn í bæarhúsunum.

Fréttagyðjan Ossa gekk nú í skyndi um alla borgina, og sagði frá hinum hræðilega dauða og fjörtjóni biðlanna. En er þetta spurðist, söfnuðust menn úr öllum áttum fyrir framan hallardyr Odysseifs, og voru með stunum og andvörpum; þeir báru líkin út úr höllinni, og jarðaði hvörr sinn vandamann. En þá, sem heima áttu í öðrum borgum, lögðu þeir á örskreið skip, og sendu fiskimenn með þá, hvörn heim til sín. Eptir það

gengu menn á samkomu allir saman, og voru mjøg sorg- bitnir. En er menn høfdu safnast saman og voru komnir á einn stad, þá stód Evpites upp, og taladi til þeirra; því hann bar ógleymanlega sorg í hjarta sínu út af falli Antinóusar, sonar síns, er hinn ágæti Odysseifur hafdi drepid fyrstan. Hann var grátandi út af syni sín- um, tók til orda á samkomunni og mælti: Gódir vinir, mikid stórrædi hefir þessi madur med høndum haft vid Akkea. Hann flutti fyrst marga hrausta-menn hédan á skipum, týndi sídan skipunum, en misti mennina; sídan, eptir þad ad hann kom í land, drap hann þá, sem gøfg- astir voru af Kefallenumønnum. Heyrid nú, førum af stad, ádur en hann bregdur vid og fer annadhvørt til Pýlusborgar, eda til hins helga Elealands, hvar E- pear hafa yfirrád. Annars munum vér aldrei um frjálst høfud strjúka hédan af, og er þad mikil skømm, ef ept- irkomandi menn spyrja slíkt. Ef vér ekki hefnum sona vorra og brædra á banamønnum þeirra, þá þykir mér ekki betra líf, en hel, og heldur vilda eg vera daudur samstundis og vera í samfélagi daudra manna. Førum nú af stad, svo þeir verdi ekki fyrri yfir um, en vér. Þannig mælti hann grátandi, og kendu allir Akkear í brjósti um hann. Í þessu bar Medon og hinn and- ríka saungmann þar ad, þeir komu úr høll Odysseifs, og voru þá nývaknadir. Þeir gengu framm á sam- komuna, og vard hvørjum manni bilt vid. Hinn vitri Medon tók þá svo til máls: Hlýdid nú á ord mín, Itakumenn. Ekki hefir Odysseifur framid þessi verk án rádstøfunar hinna ódaudlegu guda. Eg sá sjálfur ein- hvørn himneskann gud, sem stód, Odysseifi til annarar handar, og var øldúngis eins í hátt og Mentor. Ymist sýndist einhvørr ódaudlegur gud standa frammi

(5)

fyrir Odysseifi og vera ad hughreysta hann, ýmist sló hann felmtri á bidlana, og æddi um höllina; féllu þeir þá hverr um þveran annan. Svo mælti hann, en bleikur óttinn greip þá alla. Því næst tók til orda ödlingurinn Haliterses Mastorsson, hann var sá einn manna, er bædi var framsýnn og forspár; hann var þeim vel viljadur, tók til orda á samkomunni, og mælti: Heyrid nú mál mitt, Itökumenn, þad er eg vil mæla. Ydar ómennsku er þad ad kenna, vinir, ad þessi verk eru framin. Þér vildud ekki gegna mér, og ekki þjódhöfdíngjanum Mentori, til þess ad stilla sonu ydra, ad þeir færi ekki fram slíkri fíflsku. Höfdu þeir því fram stórrædi mikid med illri frekju, er þeir eyddu eigum, og smánudu eiginkonu hins hraustasta manns, og hugsudu, ad hann mundi aldrei framar heim koma. Nú er þad mín tillaga, ad þér hlýdid mér, og gerid, eins og gef rád til, sem er þad, ad vér förum hvergi, svo eingi rati í ógæfu af sjálfskapar vítum. Svo mælti hann, en þeir spruttu upp med miklu háreysti, var þad meir en helmíngur þíngheimsins, en adrir bidu þar eptir, sér í flokki. Því hinum líkudu ekki þessar tillögur, heldur létu ad ordum Evpítesar, og þustu þegar til vopna. En er þeir höfdu herklædt sig skínanda málmi, kom allur flokkurinn saman fyrir utan hina landvídu borg, var Evpítes fyrir lidinu; sá þad á, ad hann var ekki vitur madur, er hann ætladi, ad hann mundi fá hefnt sonar síns, því honum átti ekki ad verda heimkomu aptur audid, heldur lá fyrir honum ad bída bana í þessari för. Atena tók nú til orda vid Seif Kronusson: Fadir vor, Kronusson, ædstur Konúnga, seg mér, þad sem mig forvitnar ad vita: hvad er þad, sem þú hefir nú í hyggju? ætlar þú ad láta enn-meir verda af hinni

illu styrjøld og hinum ógurlega hergný, eda viltu leggja frid milli beggja flokkanna? Skýsafnarinn Seifur svaradi henni, og sagdi: hví spyr þú mig ad þessu, dóttir, og forvitnast um þetta? Hefir þú ekki sjálf haft þá ætlan í huga, ad Odysseifur skyldi hefna sín á þeim, þá hann kæmi heim? Far þú fram því, sem þú vilt; en segja mun eg þér, hvørsu þetta mál á ad lúkast. Med því hinn ágæti Odysseifur hefir hefnt sín á bidlunum, þá skulu menn veita hvorir ødrum trygdir, og skal hann vera konúngur ávallt; en vér munum koma því til vegar, ad gleymast mun sonardrápid og brædradrápid, skulu menn verda eins gódir vinir, og ádur, en velsæld og fullkominn fridur aptur á koma. Med þessum ordum eggjadi hann Atenu, sem þó var ádur alláköf. Hún brá nú skjótt vid, og gekk ofan af Olymps tindum. En er þeir Odysseifur høfdu sadt sig á hinum ljúffenga mat, þá tók hinn þolgódi, ágæti Odysseifur þannig til orda: Fari einhvørr út, og gæti ad, hvørt þeir eru komnir nærri. Svo mælti hann, en einn af sonum Dólíusar gekk út, eins og hann baud, steig upp á þrøskuldinn og stód þar, sá hann þá, ad allur flokkurinn var kominn nálægt; taladi hann þá þegar skjótum ordum til Odysseifs: Þeir eru nú komnir í nánd, vér skulum því vopnast í skyndi. Svo mælti hann, en þeir spruttu upp, og fóru í vopnin, þeir Odysseifur fjórir, og sex synir Dólíusar. Þeir Laertes og Dólíus fóru og í vopn sín, þó þeir væru gráir fyrir hærum; gengu þeir því ad eins til bardaga, ad nú var naudugur einn kostur. En er þeir høfdu herklædt sig skínanda málmi, þá luku þeir upp dyrunum og gengu út, og fór Odysseifur fyrir þeim. Atena, dóttir Seifs, gekk þá til þeirra, og var þá lík Mentori í vexti og

málrómi. En er hinn þolgódi, ágæti Odyseifur leit hana, vard hann gladur, og mælti þegar til Telemakkusar, sonar síns: þegar þú gengur nú framm í fólkorustu, Telemakkus, þar sem hraustustu menn skiptast vopnum vid, þá muntu sjálfur hafa vit á ad gera ekki skømm til ætt vorri, forfedra þinna, er ádur fyrr meir høfdum ord á oss um allan heim fyrir hreysti og karlmennsku. Hinn greindi Telemakkus svaradi honum, og sagdi: þad muntu sjá, fadir minn, ef þú vilt, ad vid áhuga þann, sem eg hefi nú, mun eg einga skømm gera ætt þinni, eins og þú segir. Svo mælti hann, en Laertes vard gladur vid, og mælti: gódu gudir, hvílíkur dagur er þetta fyrir mig! Mig gledur þad stórum, ad sonur minn og sonarsonur keppa um hreysti sín í milli. Hin bláeyga Atena gekk þá til hans, og sagdi: þú Arkisíusson, sem ert mér lángkærastur allra félaga vorra, heit á hina bláeygu mær og fødur Seif, og reid svo hid lángskepta spjót og skjót því fljótlega. Svo mælti Pallas Atena, og blés miklum hug í brjóst honum. Hann hét þá á dóttur hins mikla Seifs, reiddi hid lángskepta spjót mjøg snarlega aptur á bak, og skaut, kom skotid í Evpites, og gegnum hjálminn, á honum voru kinnbjargir af eiri, og stódst hjálmurinn þó ekki skotid, og gekk spjótid í gegn, en madurinn féll mikid fall, og hringladi í vopnunum ofan á honum. Þá gerdu þeir áhlaup fremstir í flokki, Odyseifur og hans frægi sonur, og hjuggu med sverdum og tvíeggjudum spjótum. Og nú hefdu þeir lagt alla óvinina ad velli, og svipt þá heimkomu sinni, ef Atena, dóttir Seifs Egisskjalda, hefdi ekki kallad hárri røddu, og stødvad allan lýdinn: Hættid hinum mannhærta bardaga, Itøkumenn, sagdi hún, og skiljist ad, ádur en meira mannfall verdur. Svo

mælti Atena, en bleikur óttinn greip þá alla, urðu þeir svo hræddir, að vopnin hrutu úr höndum þeim og féllu öll til jarðar, þegar gyðjan lét heyra raust sína; snéru þeir þá á flótta til borgarinnar, og vildu gjarna forða lífi sínu. Hinn þolgóði, ágæti Odysseifur æpti þá ógurlega, hann hnepti sig saman í kút og stökk svo áfram, eins og hásleyg örn. En í sama vetfángi skaut Kronusson glóandi reiðarslagi, og féll það fyrir framan Bláeygu, dóttur hins sterka föðurs. Þá talaði hin bláeyga Atena til Odysseifs: Seifborni Laertesson, ráðagóði Odysseifur, hept þig, og stöðva deilu hins sameiginlega bardaga, svo hinn víðþrumandi Seifur Kronusson verði þér ekki reiður. Svo mælti Atena, en hann hlýddi henni, og varð glaður í huga. En síðar meir gjörði Pallas Atena, dóttir Seifs Ægisskjalda, sáttmál á meðal hvorratveggju, var hún þá lík Mentori að vexti og í málrómi.

Endir Odysseifs drápu.

# Leidréttingar:

Seytjánda bók, 11, 2, les þad; 11, 19, l. snikja; 12, 15, l. Telemakkus; 23, 18, l. kyrtil; 24, 16, l. þad. Atjánda bók, 34, 32, l. brúdarinnar; 35, 6, l. fagurgala. 39, 9, l. aungvan. Nítjánda bók, 41, 19, l. idjulausan; 41, 23, l. skilþi; 41, 29, sídur les súlur; 42, 9, l. augu; 42, 24, l. eldpollunum; 43, 29, l. ad; 46, 4, l. virdíngu; 52, 11, l. í lélegu; 58, 13, l. og allir. Tuttugasta og fyrsta bók, 6, 23, Konúngsins les boga Konúngsins. Tuttugasta og önnur bók, 20, 10, vegi l. vega. 25, 25, l. hans 33, 21, les ósköpin. Tuttugasta og þridja bók, 47, 17, les nautahirdirinn. 48, 13, les fjölkýngi. 24, 53, 26. furdad; l. furdad, 67, 4. l. ætlan.

Fimtudaginn, þann 1ta dag Október=mánadar, þá Skóli er settur á Bessastodum, verdur á sama stad af Skólanum Hátíd haldin í minníngu Fædíngardags vors allramildasta Konúngs Kristjáns Attunda; bidjum vér því, med þessu Bodsriti, audmjúklega og ástsamlega Skólans Forstjóra og adra Skólavini og velunnara, ad þeir vilji ásamt oss þessa Hátíd halda, Gudi og Konúnginum til verdugs lofs og heidurs.

Bessastodum þann 17da Aug. 1840.

